# Rímur

af

# Líkafróni Kóngssyni

og

## Køppum hans.

Orktar af

Sigurdi Breidfjørd

og eptir hans handriti prentadar.

---

Videyar Klaustri.

Útgéfnar á kostnad Bjarnar Pálssonar.

1843.



# Fyrsta Ríma.

Hamíngjan komi og hjálpi mér Hér til nýrra stefja Tuttugasta og fimta fer Flokkinn minn ad hefja.

2. Huga sagan veki vorn Vid skulum bædi glíma Um ad draga frædi forn Framm á þessa tíma.

3. Lánga vegu um vídann heim Verd eg ferd ad þreita Hvar sem eg úr háska þeim Hafnar fæ ad leita.

4. Søgunni kém eg sídla af Sé eg strax þann vanda Mér er sem eg horfi á haf Sem hvørgi nær til landa.

5. Mín vill dofna orda ør Sem aldrei fær ad hvíla Æskan sofnar, ervid kjør Elta mig sem grila.

6. Báran manni móti rís Mørg þar anna kvædi Ørlaganna Óndurdís Einatt bannar nædi.

7. Þegar eg nædi þreya kann Því er vid ad búast Heimurinn bædi og hamíngjan Á hjólum undan snúast.

8. Þó skal ergi heimsins hér Hugann lítid

fæla Eg mun hvergi hika mér Hætti fram ad mæla.

9. Medan anda orka má Eg kvedandi ad draga Mína landa læt eg sjá Lestur vandann braga.

10. Blíd og heidrud hrínga strønd! Og hafnar runnur funa! komum, leidumst hønd í hønd Ad hlída, skilja og muna.

11. Likafróni um lángann veg Pó leidi margt til tafar Vid skulum þjóna vinaleg Vøggu frá til grafar.

12. Hér eg senda ad søgu fæ Sigtýrs hrafna báda Hvørt eg enda hennar næ Hródrar dísir ráda.

---

13. Á Grikklandi kóngur knár Korintu nam ráda Periander alda ár Ærnra gjætti láda.

14. Vitsku frædi gaum ad gaf Gáfur skreittu halinn Grikklands svædis sá er af Sjø spekingum talinn.

15. Hitt var grand um menta mann Margir lærdir spjalla Ljótur fjandinn leidti hann Lesti ad drýgja alla.

16. Drottníng vísir væna á Vel ad listum búna Hét Melína bjørt á brá Briggjan orma túna.

17. Sátu hjón á heilla stund Heidrud syni dýra Líkafrón þeir kóngsins kund Og Kypiselus skíra.

18. Lángt af hinum Líkafrón Lystir æfdi gildur Triggur vinum vænn ad sjón Vitur, kjænn og mildur.

19. Allt hid góda edli vann Erfa af módur sinni En speki fróda födurs hann Festi í hljódu mynni.

20. Skapid slátt sem fors og svik Födurs hljódann grætti Hvar sem mátti hroka strik Hjarta gódur bætti.

21. Ungum hara af lýdi lands Lofstýr einginn frestar Dygdin bar í hendur hans Hugar ástir mestar.

22. Eldri stýrir ila og lands Ei má vondsku lægja Fridlur dýra drottníng hans Djöfullegar rægja.

23. Hann í þræla haminn bjóst Hrundu tród af reidi Setti hæl í svanna brjóst Svo hin góda deydi.

24. Fridlu ligd þá fregna vann Fólsku eptir megna Öllum bigd á báli fann Brenni þær minna vegna.

25. Eptir nídíngs atburd þann Ottast þjód mun hafa Brædur flýdu födurs rann Og fundu módur-afa.

26. Proctes heitin vitur var Vafinn ára lúa Bræðrum veitir beina þar En blída harmar frúna.

27. Skammir — kvad hann — mildíngs mér Mesta harma bera En samt þad ei þorum vér Ad þid hér meigid vera.

28. Elli gjalda minnar má Megni sorgir spilla Og því haldid hédan frá Heim til fødurs illa.

29. Þér skal hlýða og leingja leid Líkafrón nam þýda En mér mun vídar gata greid En gilfa hjá ad bída.

30. Ungar hetjur afa sinn Eptir þetta kvedja Kløkkur grét þá karlfuglinn Kappar burtu stedja.

31. Fødur rekkar sinn ad sjón Sídan brádum finna Lofdúng ekkért Líkafrón Lést þá vilja sinna.

32. Reidin brann um ræsir enn Rak þá út á stræti Nú réd banna ad nokkrir menn Naudsýn þeirra bæti.

33. Hølbar veiginn hvata á Hladnir byrdi sorgar Á fjórda degi fylkir þá Finnur utan borgar.

34. Himdu dreingir húngradir Hér á milli stræta Voga eingiun vildi sér Vesæld þeirra bæta.

35. Líkafrón þá fødur sá Á sætur sprettur dreingur Þussa bóna þúndi frá Þeigandi svo geingur.

36. Kypiselus sama bil Sát og kóngsins bídur Hilmir vel hans talar til Trigð og sættir býdur.

37. Sættist hradur svo við gram Sveinninn happa snari Samt í stadinn Corcicam Kypiselus fari.

38. Eingin hyggja annað má Allir verða að deya Svo leið tiggja æfi á Ellin mundi beya.

39. Stjórnar fela størsin má Stumrar rúmið vidur Kypiselum kóngur þá Koma til sín bidur.

40. Sú við stóli kóngsins kjær Kémpan taki mæta Af því stóli óvopnfær Ei má stjórnar gjæta.

41. Sendi hara svør um torg Seima yngri haudur Kvaðst ei fara í fødursborg Fyrri enn hann er dandur.

42. Ødling lægir ofmetnað Orðin þau lét heyra Sá skal vægja að vísir kvað Sem vitið geymir meira.

43. Fer eg þá til Corcica En Kypiselus hingað Veit eg má svo vel líka Vidi úngum hringa.

44. Þessi bodin þiggja kaus Þórinn ýngri sverda Verdur gnod frá landi laus Lofdúng snýr til ferda.

45. Freidir eyrinn aldrei sjór Orga rán-ar meyar Skeidir keyrir kaldur sjór Corcica til eyar.

46. Hlinir branda eyu á Org sem viskudæmi Periander aldrei sá Osta þángad kjæmi.

47. Sínum vélum virdar á Vøktu ráð-id styrda Kypiselum kargir þá Konúngs arfa myrda.

48. Meintu sjóli mundi þá Midur hjá þeim búa Og sínum stóli ægis á Aptur þadan snúa.

49. Þegar heyra fylkir fær Fallid eiginn fundar Prísur geir og þjódir slær Þá og hvørgi blundar.

50. Beitti stáli og eldi eins Eiddi mord-íngonum Mistu sálir meidar fleins Margir þá fyrir honum.

51. Als þrjú hundrud únga hann Edal-borna sveina Leida bundna á búsður vann Og bídur þeim til meina.

52. Seima vidi sendi hann Sardinía stjóra Gélda bidur maktar mann Mækja alla þóra.

53. Ægir fleyid leiddi af leid Og lødurs meyar vakti Sanís eyar undir skeid Ut af veigi hrakti.

54. Þessa stadar maktar menn Miskun syndu slinga Létu glada sveina senn Sinna gjæta þinga.

55. Sínu valdi verja á Virda søgdust reyna Yrdi haldin eggja þrá Ut af frelsi sveina.

56. Slíka frétti søgu sá Sem þeim vildi skadann Mildíng grettur mundi þá Missa svipinn gladann.

57. Þó um bera þessi kjør Þeingill hlýtur lotinn Mátti vera kyrr í kør Krapta og ráda þrotinn.

58. Hardast stríd vid heiptugann Huga kóngur átti Litlu sídar lífid hann Láta frá sér mátti.

59. Flesta kjætti ad allur er Alfur ljósa hnúa Ad hann mætti missast hér Mér er ljúft ad trúa.

60. Yrkid sljóa eydist mér Okkar tóna styttum Lesari! þó ad leidist þér Líkafrón ei hittum.

## Önnur Ríma.

Eg þó hafi austrabáta ekki í smídum

Vinum bædi og vísum rjódum Vil eg feiginn undla ljódum.

2. Vísa þó eg vísna ætti veidt nýa Sjó: hráddur á sónarslóä Svei nér ef eg þori ad róá.

3. Hinir meiga hyrda allt af herjans fundi Þó eg sitji á þagnarlándi Þegár þeir fara mjøg siglandi.

4. Eins er þá til abla vil eg annad fara Gunnladar af korgi kéra Keimur finnist mér ordinn verá.

5. Kérin tæmdi Odinn øll sem um réd bidja Spía hans og lénda, ledja Leingur mun því fáa gledja.

6. Fyrst ad þessi fúl er øll og fúin vará Tuganu minu og Ulfsnanu kjærá Med því vil eg ekki hærá.

7. Ekki hef eg ønnur rád í efnum bágum En sæda þá á fornum søgum Framm svo geti klakid brøgnum.

8. Þeir sem ekki una nema á austra skeitum Andra vid og Ulfars kvædi Ofka vil þeir festi nædi.

9 Þessir meiga draga í djúp á dverga skip: um Vokvadir af sónar sopum Síst ad þeirra ferdum skopum.

10. Þeir sem fúsir fylgid mér í flegdu vindi

Minni svo ad verdi vandi Vid skulum ráfa á þurru landi.

---

11. Lesum nú af Líkafrón hann leidir heldur Ferdum sínum flýta vildi Fødur vid og bródir skildi.

12. Hann ei skinjar hvada veigi hentar gánga Med sér ber hann þánka þúnga En þeyi gull né aura púnga.

13. Upp um land og eydi skóga iljar þjáir Samt ad øllu gløggt hann gáir Gøtu slóda hitta náir.

14. Fekar þann og fann ad kvøldi fagurt rjódur Eikur líka alblómgadar Undir þeim hann nemur stadar.

15. Húngradur og þreittur þegn á þessum trjánum Eptir leitar ávøxtonum En einginn verdur fyrir honum.

16 Upp vid nokkra eik hann stód því andinn lúrast Þetta tekur tréd ad hræðast Til og frá svo greinir bærast.

17. Ungann svein hann upp sá klifra ødru meigin Til hans vekur tal hinn frægi Á trénu þar ef ávøxt sæi.

18. Epli kvadst hinn úngi mundi á því finna Ad sá í kvøldverd foreldranna Og flytja heim í þeirra ranna.

19. Öldúngs bur ei eplin sá því á var húmið Þarna samt hann þroka nemur Þar til Sveinninn ofan kémur.

20. Kom hann bráðt með karfir tvær; en konúngs niður Halinn seigja heiti biður Honum svarar klæða viður.

21. Kaffon skaltu kalla mig; en kundur Sjóla Hirðir spurði höggverðs dala Hvað er lángt til þinna Sala.

22. Greindi hinn ef gaungu þángað gjörir reyna Þetta kann sig sjálft að sýna Søgu ekki þarftu mína.

23. Gramsson tekur gaungu þá með garpi snara Epla kørfur bauðst að bera Beiddi hinn svo mætti vera.

24. Ödlíngs niður aldur bað hinn únga skíra; Sagðist vera seytján ára Svipgeigudur freyu tára.

25. Líkafrón þá larmann biður ljúfann inna Hvørt í nótt mun hæli finna Ef hýbíla eg vitja þinna.

26. Þegninn svarar þetta veitstu þegar reynir En fyrna stór í slíkum þínum Fødur held eg virðist mínum.

27. Mildíngsbur því myrkt var orðið mál réð kveikja: Því svo eplin seint vill sækja Sigtýr úngur mána lækja.

28. Kaffon þá við koppann náði kvíðu auka Ekki fyrr má Eplin taka En þau kólna og vindar blaka.

29. Eitt var líka að eg þig sá um úlfa haga Undradíst á alla vega Að þú fórst svo gálauslega.

30. Halinn því að helst eg meinti hetju gilda Hinn nam svara hlinur skjalda Hvað géturðu slíku valda?

31. Held eg þig nam hjala bauga hirðir spaki Húngraðann með hugar sýki Hvørsugt þó að manni líki.

32. Puldi aptur þeingils bur mér þikir heldur Spakvitrari enn er til aldur Yðu vera loga baldur.

33. Að garði koma garpar þá sem gaung á voru Branda lundar burða stóru Báðir inn um hliðið fóru.

34. Hér næst þeir að háu og føgru húsi troða Mælti ýngri meiðir skíða Mín þú verður hér að bíða.

35. Líkafrón svo lætur gjørt; en litlu síðar Ut þar kémur alskéggjaður Elli boginn hærður maður.

36. Vertu híngað velkominn hann veik til svara Ef í nótt hér viltu vera Vænstann skulum beina géra.

37. Víst mun nokkud valda ad þú vill- ist híngad Pikir mér sem þórinn spánga Purka muni hvíld ad fánga.

38. Sonur gilfa feigir þetta sannast vera Bádir svó í bæinn fara Bygging má þar líta rara.

39. Bónda nú ad nafni spurdi nadda veitir Galibes sig karlinn heitir Kvídu síd- an fremur beitir.

40. Þekki eg bædi þig og allt til þinna ferda Og fólsku verk þíns fødurs hardá Flestra manna heillir skérda.

41. Appollo hann ætla þig til efturs mundi Viturlega úr vesta grandi Víkur þú hér burt af landi.

42. Hvad má valda haliun spurdi het- jan fræga Einmana vid eidi skóga Aldrí þínum viltu lóga?

43. Hvørra manna hyggur þú mig het- jan vera Bóndinn spurn svo gat ad géra; grímur svara ljóma hvera.

44. Pad eg ekki þekkja má enn þó skal géta Ad frænda sjái eg módur mæta; Meidur svarar orma fæta.

45. Nærgjætinn þú úngur ert og ættar fródur Því ad fadir þinnar módur Pelsi er minn sannur bródur.

46. Þegar eg hennar heyrði eg morðið heiptar fljóta Híngað nam eg hýsíng flytja Hugði um kóngsins líf að sitja.

47. Illur hefur einatt á sér sterkann vara Til að vinna vominn æra Veigi sje eg aldrei færa.

48. Hitt skal mínum huga samt í hljóði líka. Skynja eg að skálkinn klækja Skrattinn muni bráðum sækja.

49. En hvað ætlarðu héðan þér til hollra leiða Þá réð svara þundur skíða Pínum vil eg ráðum hlýða.

50. Það mér strax í þánka flaug í þessum vanda Nú að vitja Norðurlanda Néma frægð og síði vanda.

51. Sama býr í brjósti mér svo bóndinn tjáði Heldur enn dvelja hér á láði Hafðu vinur það að ráði.

52. Líka mun eg leggja ráð til leiðar fremur. Alpesfjöll þá undir kémur Í einum skó, þú staðar nemur.

53. Bygð þá muntu bráðum finna býr þar m[illegible]ur Vinur minn er vafinn dáðum Víkja skaltu hans að ráðum.

54. Báðir síðan blunda þeir við brjóstin nætur Svefninn eykur ama bætur En árla koma þeir á fætur.

55. Þá var næsta þeingilsson í þúngu gédi Karlinn til hans koma nádi Kátur svo vid rekkinn tjádi.

56. Veit eg nú hvad vanta þykir vininn dýra Illt mun þykja einn ad vera En á því skal eg bætur géra.

57. Sasson þér eg frænda fæ sem fylgd skal lána Allvel mundi úngur þjóna Annara þó leiti fróna.

58. Forløg munud fleiri saman frændur eiga Kjætist mína kémpan fræga Karlinn leingir rædu þæga.

59. Líka fylgja læt eg þér um lángar sveitir Ránar frægi rødla veitir Rakka minn sem Rísar heitir.

60. Vinar míns hann vænar bigdir veit ad finna Því ad kvæda hlinur hlenna Hundinn gaf mér sjálfur þenna.

61. Hédan skulud halda í dag því hetju leita Kóngur mun med klæki ljóta; Kémpan þakkar runni spjóta.

62. Dagverd svo af dýrum krásum dreingir taka. Þess kann eg ad þurfa líka Þótt ei fái rétti slíka.

# Þridja Ríma.

Dimmir vilja dagar núna byrgja, Heida sól og himins brá, Hrida lætin vaxa þá.

2. Arid vill ad enda sínum hniga Náttúrunnar edli í Umbreitíngar valda því.

3. Tíminn, árin, æfin, hopp og skadi Stødu hvílast eingri á Allt sér biltir til og frá.

4. Þánkinn manns í þessum fleyi straumi Heldur ekkert hæli á Hvíld þó vildi feiginn ná.

5. Líkt og fis sem føllin storma hrinda Speigil hálum ísi á Andinn veikur hrekjast má.

6. A stoduglyndi stagast margir hafa Speki kénna þikjast þá Þekkt ei valla sjálfir fá.

7. Leita eg opt med ljóst hugar krapta Stødugleikans stjóra ad Styrdt vill einatt gánga þad.

8. Þánkann hefi eg þúsundsinnum bedid Af svo feingjum ekki last Við eitthvad sig ad binda fast.

9. Einatt brýst hann undan mínu valdi Ofsnnda eg eingann mann Sem elta vill á fæti hann.

10. Hann þótt eg vid hitt og þetta bindi Fleyir hann út í fjarska sér Fyrr enn vid ad litid er.

11. Nú skal hann þó nokkud fá ad bída Søgu minnar efni á Adan sem ad stalst hann frá.

12. Dogverd þegar dreingir tekid hafa Hjónum kvedju hýra tjá Hafa sig til ferda þá.

13. Cassoni hin kjæra módur fylgdi Ljúf í gédi leidir á Líka tók ad mæla þá:

14. Þig ei, son minn! þarf eg til ad hvetja Ad þú rækir sérhvørt sinn Sanna trygd vid frænda þinn.

15. Hitt mér þækti heldur miklu varda Ad ófrægari aptur hér Ekki komir enn núna ser.

16. Þér eg vildi þad til ráda leggja Haltu jafnan hreinni trú Heilla best mun verda sú.

17. Heittu á þann er himin og jördu skapti Afgudir ei orka neins Utan kannské slísa og meins.

18. Þennann hríng nú þigdu af hendi minni Lausan hann ei láta bid Lífid nema þursi vid.

19. Grátinn sídan garpa mærin kvedur Kløkk þeim bádum kreikar frá Cassoni réd ad mæla þá.

20. Mikil elska módur fylgir hjarta Vid-skilnadur veit eg mér Verdur einginn þíngri enn hér.

21. Mála sannast mun kvad arfi tigg-

ja Móður áſt er fegri enn fleſt En føður hatrið þrauta meſt.

22. Er nú gétið ekki þeirra ferða Fyrr enn Alpesfjøllum ná Furðu mikinn ſkóg þeir ſjá.

23. Rakkinn tók að renna undan brøgnum Virki mikið virðar ſjá Vøllum ſtanda føgrum á.

24. Gánga þeir með gérði þeſſu víða Lokſins finna læſtar dyr Líkafrón þá frænda ſpyr.

25. Líſt þér ei að ljóſta høgg að dyrum Caſſon fékk hinn kaſki tjáð Kunna mun eg betra ráð.

26. Seppanum hann ſigar þar að dyrum Hann ſig brátt að hurðu dró Hátt úr øllum máta gó.

27. Litlu ſíðar lauk upp úngur maður Caſſoni réð heilſa hann Hirt og ſpirja frétta vann.

28. Sagði hinn þá ſatt af beggja ferðum Um greiða þar og giſtíng bað Geíngur ſveinninn inn með það.

29. Caſſon þá við kóngsins mælti arfa Bóndans Opínaunsar Ungur þetta ſonur var.

30. Fylgi hans og félagſkap að vinna

Okkur væri óska ráð ef þeim gjætum kosti náð.

31. Bóndans kundur bráðum aptur kémur Vinalegur var að sjá Í virkið leiddi báða þá.

32. Sali stóra sjá þeir nú og fríða Og hæru prýddann hrínga bjóð Hann í bæardyrum stóð.

33. Cassons þessi kvedju dável tekur Þeingils arfa þurlegur Þessi karl að nafni spur.

34. Períginas prúður sagdist heita Bóndi mælti: þú munt þér Þetta nafnið géfa hér.

35. Skrítið er þú skulir nafni ljúga En komið báðir kjærir inn Casson minn og rakki þinn.

36. Líkafrón þó leifi ekki hafi Innar gékk með úngum hal Einnig þá í fagrann sal.

37. Bóndinn þá í burtu reiður snéri Arfi hans þar eikur bið Ödlíngs talar niðja við.

38. Viltu ekki vagstar mesti rekkur Heiti seigja hinn þá tér Hermdu pilt hið sanna mér.

39. Pilturinn seigir: Popil mig þeir kalla Mælti aptur mildings son Mitt er nafnið Líkafron.

40. Gétinn er eg Grikklands kóngi ríka Períander heitir hann Hér af sveinninn rodna vann.

41. Popill þvínæst príða bordin tekur Fágjætustu fangum með Frétta sídan spyrja réd.

42 Frændur allt af ferdum sínum þilja Fyrirtekt og ferdaløg Furdar sveininn þetta mjøg.

43. Margt þid fáid merkilegt ad skoda Viltu ei kvad vísirs bur Verda okkar lagsmadur.

44. Fadir minn þeim ferdum mundi ráda Sveinninn tér enn svørin hans Settu ádan mig í stans.

45. Var eg fødur bikar sinn, hann tjádi: Sídastann munt sérhvørn þú Sonur til mín færa nú.

46. Mig, eg gégndi mest af øllu vardar Ad lísid þú oss leingir hjá Lét hann aptur heyrast þá.

47. Pad má verda þótt ad hitt svo fari Betur mælt enn ekki er Arfi kóngs þá mæla fer.

48. Sveinninn ní til sængur leiddi bragna Blunda þeir og bída dags Bónda son þá kémur strax.

49. Meint er kvad hann mínum gamla fødur Ef erindi vid hann eigid þér Enn í dag nú bídid hér.

50. Líkafrón þad lætur svona vera Dável una dreingir sér Deigi loksins halla fer.

51. Búsrádandinn brølti nú á fætur Kom í stofu kappa til Kvedur þá med vina il.

52. Skulum vér nú, skrafad karlinn gétur Virkis gánga vegginn á Um vandamálin tala þá.

53. Ferda = rád á fjøllum Nordurlanda Valla þikir viturlegt Vegad er af tveimur frekt.

54. Kinjar eru ad Calidas minn vinur Sinn ad heiman soninn ljær Í svadalegar ferdir þær.

55. Annad hugdi eg audnu meiri stýra Um sudurheim ad slíta før Fær þar margur betri kjør.

56. Er þar líka átrúnadur betri Einn þeir dýrka alvaldann Sem alla hluti skapa vann.

57. Bænir allra barna heyrir sinna Því er mesta þørf ad fá Pekking slíkum Drottni á.

58. Veit eg son minn viltu með þér Kjósa Meina það ei munum vér Ef mínum fylgið ráðum þér.

59. Þetta sverð eg vil þér kóngsson gèfa Gróa munu síðla sár Sem að veitir benja ljár.

60. Hefur sverðið hjöltum í að geyma Smyrsli þau er bæta best Banvænlegu sárin flest.

61. Ætíð skuluð á því taka vara Vaki einn þá alla stund Aðrir meðan taka blund.

62. Órfar þínar arfi minn og boga Geymdu vel því géta má Að gagni yður komi sá.

63. Heitið þið í huga ykkar tíðum Ef að nokkuð ama kann A alskaparann voldugann.

64. Gramson mælti gjöri eg nú það heiti Ei að snúa ferðum frá Fyrr enn hann eg þekkja má.

65. Heitin þessi heyri sá alvaldi Þekking finna sanna á sér Sjálfur ráð hann leggi mér.

66. Fyrst mun eg þó fjöllin kanna vilja Samdi öllum þetta þar Þeir til gánga stofunnar.

67. Kvöldverð fá og koma svo til náða

Nóttin allra nærdi þrek Nú eg líka hvíldir tek.

68. Ekki vil eg ofurseint á kvøldi Uppá leggja Alpesfjøll, og ergjast þar vid drauga og trøll.

## Fjórda Ríma.

Vakna eg enn vid vísna stjá Vana þeim ei sæ ad tína Fædast verdur fjórda frá Fram svo þilji søgu mína.

2. Lukkan mín er røg og ríng Rekkar til þess margir vita Kvædin eg af sulti sýng Svo eg fái staup og bita.

3. Sá sem medur faung og féd Fullann geymir margann sekkinn Hann þarf ekki hinna med Hann er kominn upp í bekkinn.

4. Hann sem leidir lukkan blind Lítid veit um harma smekkinn Honum þjónar hvør ein mind Hann er kominn upp í bekkinn.

5. Flestánn vanda eg fyrrast sá Og fitna á því margann rekkinn Sem í landi umbod á Upp í sá er kominn bekkinn.

6. Sá sem hreppti sérhvørn dag Af sex og fleiri réttum smekkinn Og vínid eptir Velbehag Víst er kominn upp í bekkinn.

7. Hann sem setst í heimsins vøld Hvørgi

verdur ófka blekkinn Hefur flestra harma skjøld Hann er kominn upp í bekkinn.

8. Sá sem kvenna ástir á Einátt mænir hugur Þekkinn Og má sínum óskum ná Upp í held eg kominn bekkinn.

9. Sá sem dygda safnid á Og sakast ei fyrir nokkurn hrekkinn Heppni sinni hrósa má Hann er kominn upp í bekkinn.

10. Hann sem fyrir hverja skrá Hvørn sig veit ad losa rekkinn Hvørt hann hrós eda hædni á Hoppar uppí skálda bekkinn.

---

11. Líkafrón og lagsmenn tveir Ljósin dags nær sá ad skoda Kvedja hjón og Því næst þeir Padan undir fjøllin troda.

12. Fyrnu stórum fjøllum á Fundust ekki leidir betri Jøklar vóru og hnúkar há, á heidu sumri eins og vetri.

13. Líka fundust lægri skørd Lýdi svo ad eigi villi Par um mundi gata gjørd Gnúp=anna og jøkla milli.

14. Ill var færd og óhrein leid Uti=legu menn og trøllin Bygdu ærd um bratta heid Bønnudu mønnum leid um fjøllin.

15. Daga þrjá þeim audnum á Aar mundu gaungu laga Aungvir fáir yfir ná Og aldrei nema um bjarta daga.

16. Fyrsta daginn fjallid á Fyrdar nádu þrír á róli Peir med lagi leita þá Lags um kvøld ad nætur skjóli.

17. Høldar frídir hamar sjá Hægdi nokkud storma þytur Par var skída hrúga hjá Og hyrna ein sem nóg er bitur.

18. Kóngsson frétti ef þækti þar Peim ei skjól ad leita náda Garpar nettir semja svar Sjálfur skuli hann því ráda.

19. Popils heyrast svørin senn Samt eg kynni því ad trúa Leingi eyri ekki menn Exi þessa vid ad búa.

20. Kaffon þá vid kappa tér Karlinn sé er hér mun búa Eggja stía ef auka fer Undan tjáir ekki ad snúa.

21. Verda má í verri stad Virdar mæti kaudá leidum Hédan sjáum ef hann ad Okk- ur hendir vopnum breidum.

22. Líkar frídum lofdúngs ver Lista frænda málid netta Hér skal bída hetjan tér Hvad- sem gjørist meir til frétta.

23. Seggir snæda og sitjr þar Sáu nú er mirkrid kemur Elda glædur áleingdar Ødlíng nidur talar fremur.

24. Pángad vil eg víkja skjótt Vita hverjir elda bála Garpar ríkir gánga hljótt Géta fundid mikinn skála.

25. Trølla, lika tveir þeir sjá Tinda bjørn er sundra fóru Kétill ríkur eldi á I-hann veltu þjósum stóru.

26. Annar skrøagur ansa fer A þó sarið nekkud vinni Betur høggvið hefdum vér Húsbóndi með exi þinni.

27. Sæk þú hana Svelnir tér Svo ei þjófar vopnið taki Ut þá slana ætlar sér Ostérlegur slagða maki.

28. Haus útrekur; hálfinn á Høggur sjóla burinn frægi Buldan tekur bolnum frá Brúna stól í heilu lagi.

29. Niður skall í skálann inn Skrokkur þá enn gólfið hlumdi Dínk af falli heyrði hinn I honum þá svo røddin glumdi.

30. Hvørt er nú sem heyrðist mér Hvein í góðu oxar bladi Hvør ert þú sem hingað fer Hrekkja bjóður forvogaði.

31. Ódjarflega á allan hátt Okkur skaða svika refur Svona að vega um svarta nátt Sýn mér hvaða vopn þú hefur.

32. Svørin greiddi kémpan, kná Kníir stála brátt mun sjeðnr Og með reidda exi þá Inn til skála búans veður.

33. Trøllblendíngur hljóp á hann Helst að randa vinnu stífur Upp á bríngu mesta mann Milli handa gaurinn þrífur.

34. Exi fleija hlýtur hinn Herda milli knefann setur Hálsinn sveigir hardleikinn Hrikinn illa þolad gétur.

35. Hønd í sódans heyrnar bjór Hreif sá frægi enn gaurinn skjædi Ældi blódi enn eyrad fór Allt úr lagi og hausinn bædi.

36. Inn Popílur ad sig dró J hans gédi reidi svellur Knésbót grílu fundar sló Kylfu med, svo trøllid fellur.

37. Kaffon snar í kjaftinn þá Keirdi brand úr eldi raudum Andláts bar fram bæuir sá Blés út anda líssins traudum.

38. Líka skáru hann á háls Helja fángar. veidi stóra Buðlúngs kiäri bør til máls Brá vid hánga sætis þóra.

39. Kuldalega Kaffon þú Kallinn skildir nú vid daga Af því eg vid ódins hjú Adur vildi rædu laga.

40. Minn baud fadir mælti hinn Mættum tiuda búa finna Fyrda skada formælin Fyrst ad hindra og á þeim vinna.

41. Hans eg rád fyrir hugar sjón Hafa skal og eptir géra Lista fjádur Líkafrón Lét svo talad búid vera.

42. Bragnar skoda skálann þá Skrautleg klædi og vistir finna Nægan boda funa fá Og fleiri gjædi í kistum hinna.

43. Lagsmenn blunda Líkafrón Lætur þá enn vaka kjøri Ut um skundar úlfalón Aptra sjón þó nóttin gjøri.

44. Túngl í skíum vinda vóð Vidur linda sér á stræti Dimmu í um dýra flóð Dróst kvikindi eitt á fæti.

45. Hjá hans dýrid hlidum er Hvørt sem fleyir spjóta stillir A hann snír þad opt enn fer Undan veiginn þess á milli.

46. Børinn stála vopnlaus var Vildi gjarnan tamur sverdum Heim í skálann halda þar Honum varnar dýrid ferdum.

47. Villist hann af veigi þá Vann á fróni þreitast dreingur Pulu glanna þundur sá Pad er Ljón sem undan geingur.

48. Gilfa nidur greina fer Gaungu mig nú láttu hrada Stattn vid eg vopnlaus er Og vil ei þig í neinu skada.

49. Dýrid lagdist hægt á hrigg Hraustar sundur breidir fætur Hugurinn sagdi álma igg Ad hér mundi þurfa bætur.

50. Klappar hann því kvidinn á Kaus nú þar á bót ad géra Unga fann hann fastann þá Fædingar í stadnum vera.

51. Ljónsinnan sig lagar þá Leitast hann ad bjarga dýri Unga vann med naudum ná Neista hrannar veitir skíri.

52. Daudur sér hann únginn er Enn nú bætist hennar pína Ljónid hér á fætur fer Flest blídlæti vill nú sýna.

53. Undan stála álsi fer Eptir sporum nasar vída Uns ad skálann aptur sér Edalborinn reinir skída.

54. Ljónid inn þar líka fer Lundur svinni mastra vagna Vina sinna saknar hér Sjer né finnur aungva bragna.

55. Harmur þreitir huga manns Hvørgi veit um stála rjóda Ad þeir leiti hreldir hans Higgur beitir óma glóda.

56. Odins klædin hafa hér J hauka skjædir borid fróni Eptir klædin sum hann sjer Sýna rædur hann þau ljóni.

57. Vitra dýrid skilur skjótt Skatna mundivanta úr ranni Ut þad stýrir ferdum fljótt Fetar undan snildarmanni.

58. Þad í manna þesar spor Þeim ei slepti eptir fara Géngur hann sem hefir þor Hægt á eptir þeim fylgjara.

59. Burtu lída nóttin nam Nú er fridur runninn dagur Heyrir strid og hlífa glam Hlinur skída þeyi ragur.

60. Kémur nær hinn kaski beim Kífs þar óra standa hrinur Eg vil ærast ei med þeim Orku sljór og hugar linur.

# Fimta Ríma.

Ef að fæðast feingi hér Fimta kvæði á skauti mér Skáft úr fleti að stríða var Og skilja leti eptir þar.

2. Hún á ætíð vísa værð Verður gjætin sjaldan hræð Sinn við keipinn situr þétt Sïst því hleypur lángann sprett.

3. Gyrnist sú við sæmd og ró Sæl í búi að lifa þó Pótt ei mundir þreiti sjá En þar er stundum brestur á.

4. Samt hún finnur ómaks út Opt að sinni gull og lán En henni leiðist húsfjórnin Hér af eiðist sjóðurinn.

5. Midas kann eg milding einn Mjög var hann til starfa seinn Auðnu fulla ætla vann Allt varð gull sem snerti hann.

6. Asna laung hann eyru bar Önnur þraung samt meiri var Hvað sem næraft átti á Að varð skjærum fingra snjá.

7. Hér af lánga hafði neið Húngrið stránga færði deyð Samt af gulli glæstu þár, Gráflinn fullur kandinn var.

8. Ef að vinna að einum þráð Agyrndin og letin smáð Þvílik hvæðast meiga mein Pó mar- ar græði ljósin hrein.

9. Minum vilja víst er nær Við að skilja

bádar þær Heldur þreita hátta saung Hann þó veiti minni saung.

10. Fyrir ægur funa gná Fornar sögur bera má Ef ad sögur unir hjá Okkar bögulegu skrá.

---

11. Kóngson brædur sína sjer Sigtýrs glædum kinda hér Er ad verjast ervidt tveim Atta berjast móti þeim.

12. Fetla linna er ferdum þá Fyrsta sinni gramson brá Ut úr hvopti hildar hann Hátt á lopti grenja vann.

13. Kraup í valinn Kasson þá Kvaldi halinn sverda skjá Fjórir nádir hinna hjá Honum láu velli á.

14. Laust med sverdi Líkafrón lausinn verdur hinna tjón Vid nam skiuja vøllur þar Veina brinjur lamadar.

15. Ættartánginn ískra vann Endilángann risti mann Hetjan fyrsta høggi med Hønd svo kvista af ødrum réd.

16. Pessi nidur setti sig Sárin vidur geigvænlig Popil vid tér vísirs bur Vertu í fridi laxmadur.

17. Hvíl þig nú af vaskri vørn Vid ólúin satans børn Lát mig einann leika um sinn Og lausann reyna nýsveinginn.

18. Ádgáng hans og høgg að sjá Hina stansa mundi þá Mælti hann sem handlaus er Heljar manninn sluíð þér.

19. Fleina álfur fæ eg sjeð Fjanda sjálfann vegur með Eitur bláar eggjar hans Æsi fá mér bráðum stans.

20. Hold mitt þrútið eitri er Allt svo lúta má eg hér Ennþá fjóra falla lét Frægðar stór í heljar net.

21. Hvørn er sverðið hitta vann Høggið gérði óvígann Fleygðu hinir fleynum þá Í friðar-skini ef mættu ná.

22. Siklíngs tjáði sonur snar Síst eg ráðinn til þess var Vina greiða festa og frið Fjalla leiða þjófa við.

23. Fremur vilti eg feiginn senn Fækka skyldu stigamenn Lísið illá æsi þið Eign að spilla og manna frið.

24. Skulud hætta þessu því Þið ef sættir komist í Eyða þýða einnig hér Í øllum hlýða boðum mér.

25. Einn af þremur í því bó Innir fremur kóngsson þó Eruð sárir einnig þér Annar þárinn svara fer:

26. Verkjar mein eg frekast finn Á fíngur skeinu tók eg minn Pètta skoðar þeingilsbur Pikir vodi nálægur.

27. Allt sem blátt og eitrad var Af nú mátti høggva þar Smyrslum gódum makar med Manni hljódum batna réd.

28. Unnu bádir eida þá Öll hans ráb og bod sem má Halda best og bæta sid Brøgd og lesti skilja vid.

29. Fóstbrædranna fundinn á Feta vann svo hetjan kná Kesjú sljái kvalinn á K.ffon þá í valnum lá.

30. Brédum hægir búid tjón Benjar fægir Líkafión S.a.ystlin best svo ber hann á Brádum hrestist k.ppinn þá.

31. Þó má bída þar til kvelds Þundur friti strauma elds Popill þeingils syni senn Seigir dreingja vidskipten.

32 Birjar málid þegnar því Þegar skála svásum í V.ka feingum vid þad sinn Viku dreingir tveir þar inn.

33 Hugdum vid ad hefdu þeir Ï húmi ydur stadid tveir Ut þá snúdrgt eltum vér Undan flúdu kauderner.

34. Þetta rjódur eltum í Weid módir báda því Sátu hinir seggir þar Sókn ólin oss búin var.

35. Þetta illir þeinktu hljótt Þángad villi oss um nótt Sídan allir okkur slá En allt má valla í birjun sjá.

36. Lóna glóda lundur sjer Ljónid góda horsid er Seggnum skíra svipa venn Síst vill dýrid missa hann.

37. Handar kletta hlinur senn Ad heiti frétti sligamenn Dreingir veita dium bón Demas heita og Kéladon.

38. Vid erum brædur virdar hjá Varga fædir stardi á þá Einnig þýdir eingiun sér Ykkar vída maka hér.

39. Furdar mig þid fýstust á Føntum stiga ad búa hjá Alma vidur annar tér Aora sídi ei þekkjum vér.

40. Fyrsta sinn þá feingum vér Fjør sem minni og skilníng lér Fjøllum þessum fúsir á Med fødur hressum vórum þá.

41. Fyrst hann þá med oss var einn Annann sáum mann ei neinn Því næst vist oss þádu hjá Þeir sem gista velli á.

42. Vor er frídur fadir nár Fjøgur sídan teljum ár Vid høfum haldid sama sid Somt þó sjaldan leidmenn vid.

43. Baud oss fadir sjálfur senn Síst ad skada ferdamenn Heldur krækja hér og þar Høppin sækja í bigdirnar.

44. J hans skála áttum bú Okkar gála lundin nú Sefast mætti svo hjá þér Sidi bætta feingjum vér.

45. Lofdúngs nidi líkar slíkt Lagdi vid þad næsta ríkt Digdum sinna dád og trú Dæmin slinna fordast nú.

46. Elda brúar álfur tér A hvørn trúid brædur þér? Søgdúst ekki sveinarner Sodd-an þekkja neitt hvad er.

47. Lísir hinum ljúfur þá Lítid skin sem veit hann á Hinu sanna og heidra vann Heims og manna skaparann.

48. Viknar Demas þó vid þad Pann-ig kémur svørum ad Ef adstod hann oss einnig ljær Audnan sanna þá mun nær.

49. Daginn þraut og mála mas Mátt-ar naut sér Koffónas Hirdir Stála í húmi var Heim í skála leiddur þar.

50. Dyrum mætir dýrid hjá Día glætu tírum þá Blídu læti sín lét sjá Svo þad stræti dansar á.

51. Þessu sinnir þeingils ver Parnæst inn í skálann fer Dýrid svinna hreidur hér Hafdi á skinni búid sér.

52. Þar lifandi únga á Annann vanda skiiinn frá J gódu standi síndist sá Sendir branda mælti þá.

53. Hugar yndi fæ eg fest Fús vid kindur þessar mest Af kvikindum ann þeim best Því aldrei hrinda trygdum sjest.

54. Héðan ei eg fyrri fer Enn fylgt um veigi géta mér Þau með eiginn þrótti hér Því nú beigir sóttin ver.

55. Biðja að ráða bragnar hann Burt í náðum tíðin rann Króginn bráðum vaxa vann Víðum láð soo renna kann.

56. Demas innir eitthvørt sinn Eg vil finnum skála minn Piggja hinna þíngin svinn Peßu sinnir forínginn.

57. Búast þeir til ferða fá Foríngínn skír og Kasson þá Demas veiginn vísa réð Víðum treju geingur með.

58. Skunda mætir skjótt um leir Skálans gjæta hinir tveir Dírið heima einnig er Ungans geyma treisti sér.

59. Demas létt um leiðir rann loksins klett einn mikinn fann Líka skála hamri hjá Hnikarsbála runnar sjá.

60. Alt var þar með þokka sið Parfleg vara og bjargræðið Sonur gilsa gætti þar Gull né Silfur ekki var.

61. Demas frétti hollann hann Hvørju þetta gégna vann Andsvør veitti aptur hinn Um þáð skeitti ei faðir minn.

62. Kvað sig stoða þeigi þar Púngar boða eldíngar Fyrst þó vandi félli á Fyrir grand ei kaupa má.

63. O ad nægdir ætti eg seims Ami lægdist þessa heims Mundi eg herda á hilmirs nád Herra verda og Jústitsrád.

64. Skyldi sveitin gløggt ad gá Gøfug-heitum minum þá Skyldi einginn hattur hér Haldast leingur fyrir mér.

## Sjotta Ríma.

Þótt ad mér um foldar far Fleigt á jørdu væri hér Margar verur þægar þar Pánka gledi lána mér.

2. Hér eg dali, heidar, fjøll Himinin og ljósin þar Grøsin valin gróin øll Gét mér sjed til ununar.

3. Elfur, laki opin sjá Oldu-føll ad bjørg-unum Gledin sakir sæt á þá Sálar minnar hýbýlum.

4. Hvad eg er þá ástagjarn Alla skapta hluti vid Leik eg mér sem litid barn Loftid, jørd og sjó tilbid.

5. Kónga ríkin kís eg síst Kunna el mundi ad stira þeim Eg mun líka vid þau víst Verda frí i þessum heim.

6. Flærd og smjadur fá þeir mest Féll því bragdi margur á Alla þad er meina mest Ef manngjædingar blindast þá.

7. Vel er aud og vøldum frá Verøld einatt

bægdi mér Hug ótraudann hef eg á Hédan af eins um þetta fer.

8. Margra leid eg meina sé Mest er elska tign og féd Þeir fá heidur hoppandi En heimska og dramb þar fylgir med.

9. Rikir margt og fagurt fá Fagnar því um tíma géd En dygda skart og skinsemd há Skildingonum fæst ei med.

10. Þessa kitli þeirra sé Þó skal einatt duga mér Það hid litla sem eg sé Sérhvørn skamtad daginn er.

11. Hann sem þaki húsa á Hrafna úngum fædu lér Hann mun vaka og svo til sjá Ad sultur ekki grandi mér.

---

12. Um það málin forn eg finn Førum þar ad byrja á Heim í skála héldu sinn Hinum bænum rekkar frá.

13. Dreingir skírir dvøldu þar Daga nokkra framm svo gár Heilist dýrid húninn var Haila ordinn stór og frár.

14. Arfi tiggja samdi svar Svo nam spirja brædur enn Hvørt þeir hyggja á heidum þar Haldast fleiri stigamenn.

15. Svenna flokka vitum vér Vaskir svara brædur þá Minni nokkud annar er Atján bragna hefir sá.

16. Hinn er meiri og hefir dug Hættu-ligur mønnum því Sjø eru þeir á þridja tug Peir er haldast flokki í.

17. Kóngsson rædir ratid þér Ræníng-janna bygdir á Svara brædur satt þad er Sjeda tídum høfum þá.

18. Hinir átján hellir sér Hafa búnir slrgd og þrótt Vakt og gát sá hrekkja her Heldur um sig dag og nótt.

19. Vort þó minna virdist lid Vísirs mælti arfinn þá Mun eg slinna vóga vid Vopnin mín ad reyna blá.

20. Ljóma bylgju lundar frí Líka koma søgdust med Og kémpu fylgja kýsid í Kaff-on þá svo mæla réd.

21. Raun til þrautar þar mun fást; þeingils géfur arfi svar Slíkir fautar svo mun sjást Sjaldan njóta gjæfunuar.

22. Ad morgni kémur því skal þá Pessa okkar byrja før En hermdu Demas háttum frá Og hýbílunum þeirra gjør.

23. Atján bófar ótraudir Ungur kapp-inn mælti þá Hafa mjófar hellirs dyr Hraust-ur einn svo verja má.

24. Hellir annar er þar hjá Inní þann þeir reka féd Vardmenn glanna fræda frá Ferd þá manna géta sjed.

25. Sínu fáir ferdamenn Faung ef nokk-ur þeirra ber Pesða slá med sverdi senn Sér ef treysta kaudarner.

26. En ef færri þykjast þá Og þurfa sýnist meira lid Láta stærri flokkinn fá Fregn um það svo bregdi vid.

27. Húsbúnad þeir hafa sinn Hellri í enn lítinn aud Ef ad skada illmenninn Undan flýa verda í naud.

28. Annann daginn eptir þad Eins og brædur kéndu leid Draga frægir djarft á stad Dýrid þó vid skálann beid.

29. Demas kunnur kaudum var Kreikar einn á þeirra fund Hinir runnu heidarnar Hálfljómada morgun stund.

30. Forst þeir renna fram um skeid Fjærri því er gata lá Svo almenna sóktu leid Sekki allir báru þá.

31. Demas hinna hellir fann Honum kunn því leidin var Hleipur inn vid høfd-íngjann Hvetur runnur spjóta svar.

32. Til þín slí eg feiginn nú ferdamønn-um undan hér Hugdum drígja høgna frú Hrikum þessum móti mér.

33. Mína fáa fyrda þar Falla sá ern bjargad mér Fékk eg þá því finur var Fljótast á þeim hefnid þér.

34. Stóra bera bagga þeir Og bestu þíng í höndum tveim Tíu vér og vardmenn tveir Veit eg muni duga þeim.

35. Hinir fljótir brands í bil Brautir renna níu á Handa og fóta suma til Fylgir líka Demas þá.

36. Vardmenn á svo minnast má Midri stóðu þeir á leid Fjóra sjá á fæti þá Fleina bjóða þreita skeid.

37. Pikjast ekki þurfa lid Þá ad sækja í hellirinn Bregda hrekkja vinir vid Vilja mæki reina sinn.

38. Saman dregur furdu fljótt Fyrda þá enn glópar tveir Hika ad vega ad hinna drótt Heldur vaxa í augum þeir.

39. Leidir grun ád Líkafrón Liddur þegar standa vid Heim þeir muni fera frón Fljótt og sækja meira lid.

40. Hann því undan hørfa læst Hinir dirfast aptur þá Eptir skunda nú sem næst Niflúngs arfi rédi tjá.

41. Skjóttu kauda kaskur nú Kaffon minn og slíttu þér Hratt ótrauda hetjan sú Hardann spenna boga fer.

42. Sendi Skaudum eina ør Urdu bádir fyrir því Duttu á haudur slúdi før Fá svo nádum hvílast í.

43. Allvel bíta ørfar þér Ungum manni gramson kvad Afram slítum veiginn vér Verda kann ad lániſt þad.

44. Tuttugu menn og ſiø i ſenn Sjá þeir móti herda ról Logar brenna ódins enn upp úr ljótum falka ſtól.

45. Níu ad úr ødrum ſtad Einnig ſjá og Demas hjá Þángad vada og veifa nad Vaſkur tjáir Kaſſon þá.

46. Nú mun ſannaſt ſagdi hann Ad ſvigna ſinnum þolriſin Ségna vann ſá gjæſan ann Gilſa ſvinni møgurinn.

47. Hugur mér ei hverſa fer Hót ad ſjá á flokka þá Nærri hér einn hamar er Honum fáum vid ad ná.

48. Sér eg kvíar klettinn í Komaſt vinnum þángad inn Þeir nær drígja geira gní Gott um ſinn þar vígi finn.

49. Demas á nú minnaſt má Manni heldur verdur bilt Þegar fráa flokka ſá Fjølners elda kinda trilt.

50. Kvad ſér meint af mædu og þrá Menn því ſkeittu eigi par Burtu leint hann lædiſt þá Liſta neitir ráda ſnar.

51. Heim í ſkálann hvata fer Hilti dír-d mælti því Nú er mál þú hjálpir hér Herra ſkírum naudum í.

52. Grenjar ljón og hristi ham Honum ótta baud ad sjá Sér um frónid flíta nam Førin sókti kappans á.

53. Frá Ræníngum fregnum meir Ferda manna gótsi á Fóru ad þínga flokkar tveir Fénu hvørnig skifta má.

54. Hvørnig fara um þad á Attu dreingir þræturnar Sjálfsagt var ad sigra þá Soddan eingin spurníng var,

55. Sinn af hverjum flokki fer Flanad géta og þángad ná Sem ad verju beitta ber Besta hetja þremur hjá.

56. Virdum bjóda víkíngar Þó vina kaldur andinn sé Ad sækja slód í sveitirnar Selja gjald enn kaupa fé.

57. Sauda valid sídan þér Sjálfir rekid vort í bú Einn þó skal af ydur hér Í okkar tekinn geimslu nú.

58. Ykkar vilja innid rétt Okkur brátt sem naudsyn er Annars skiljum ekki slétt Enn annann hátt enn viljid þér.

59. Burinn svara sjóla fer Sjálfir manninn kjósid þá Handsøl þar um høfum vér Heimskir glannar søgdu já.

60. Framm þá rétta hrikar hønd Hann med Sverdi báda klauf Duttu flettir fjøri og ønd Fóru ad verda handsøl dauf.

61. Nilar frái neista ver Nokkurt hik mér kémur að Hvørt eg á að hrósa þér Handarvikið fyrir það.

62. Vorkun hitt og verdúng er I vanda best að sýna dáð Að verja sitt og sinna fjer Síðstu flestir brúka ráð.

63. Sína metur meiníng hvør, Mín í letur færist senn: Að vera hetja og heilagur Hafa gétað fáir menn.

## Sjøunda Ríma.

Ný að minda Mansaungs kver Má eg ekki leingur Ymu vinda þróttinn þver Það er synd að heimta af mér.

2. Efni fleiri að finna í Formálana slíka Þótt eg keyrist útlegð í Ei eru meiri tøk á því.

3. Jafnt og skrattinn eg vil þó Jórtra kínum méður Og þvætta aptur það eg spjó Pegar hvatti efnin sljó.

4. Ef sér kjæmi ekki það Illa fólkið viður Lítið dæmi eg leiði að Ljóða slæmum útbúnað.

5. Líkt og Sár sem fylli fær Af feitu sumar skiri Vídur, hár og hvorgi bær Heill í ári meðan grær.

6. Gjæðin dvína sumars séð Sárin þessa

géldur Fylla sínu má hann med Matarskríni ýmsum léd.

7. Loks nær á hann ekki par Ydra gjædum þrotinn Honum þá til hádúngar Hvelft er frá á nasirnar.

8. Eg var mjadar meinlaust kér Mr. Kvaaers sæla Dreyptu gladir menn á mér Merki eg þad nú búid er.

9. Burt frá kvæda bjódomum Af bekknum verd eg rekin Pigg svo fæd af þjódonum Protin gjæda hljódonum.

10. Pví fór illa þad vid sá Pordi eg mér ad líkja Eg var drilla ódar smá Sem aldrei fylli mátti ná.

11. Mjøg ófína formálann Fyrst er best ad stytta Eingum sýna eg ætti þann Eidist, tínist, brenni hann.

---

12. Vid þad hætti víina gjørd Vøku lokid þókti Par sem mættu handsøl hørd Hvørgi bættum víga njørd

13. Arsi hróp:r kon·úngs kjær Kletta gretta búa Ydar hópur hvati nær Hildar sópa reynum vær.

14. Handsøl vid hann Vígabrand Vin minn hinir reyni Æskist lid sem elskar grand Eidir frid og sporar land.

15. Kóngson tér við Kaffon þá Kappi happa drjúgur Skjóttu í herinn mest sem má Meðan eru lángt svo frá.

16. Þetta heyrir banga bør Boga flugur sendi Hnigu tveir fyrir hvørri ør Hinir meir þá drýgja før.

17. Bragnar saman berast þá Brjóta spjótin hlýfar Nú var gaman eingum á Orustan rama byrjar þá.

18. Stóð svo lengi hørd og há Hildar trilda vinna Sárin eingvir fyrda fá Fjórir dreingir verjast má.

19. Líkafrón úr fjalla kví Fljótur brjótast náði Ærðist ljóni líkur því Laufa tónar snjallann gný.

20. Sinn rœníngja hvørri hønd Hausa lausa feldi Þeirra sýngur yfir ønd Egg á slíngum benja vønd.

21. Inn í kvína aptur stökk Ofur krœfur hugar Sóknin dvín að sinni frøkk Sverð þar hvína vedur døkk.

22. Félagar líta úr flokknum þá Fóta róla einann Burtu flýtir ferðum sá Fylkirs nítur son réð tjá:

23. Sá mun kaudi sendur heim Að sœkja strákа fleiri Meðan rauðum óðins eim Ættum dauða senda þeim.

24. Hlaupum framan flokkinn á Fækk-um hrekkja mønnum Hildar gaman heyrist þá Høldum saman best er má.

25. Peir svo géra og harda hríd Hrist-ar bistir auka Eggjum skéra illann lýd Al-tamir vid blódug stríd.

26. Hinir falla fantar þá Fá sig nú ei verja Blódid svall um sár helblá Sóknin hallast kauda má.

27. Popilur vid kóngsson kvad: Kalla eg allvel gánga Odeigur fær ernin spad Eda hvørju gégnir þad.

28. Peir sem eigi brandur ber Batar þrútin dreyra Eru ad deya af sjálfu sér Sjádu um greyin hvørnig fer.

29. Kann ad vera kóngson tér Kordinn sverda bestur Sem eg hér í hendi ber Hita géri meir enn sér.

30. Hvør er sár af honum fær Holl eg valla meina Skøglar grár þar gnýrinn hlær Gaungum dárum ennþá nær.

31. Higgja ad bída hrikarnir Hinna slinna sinna Poí ei strída þora hér En þad lída meigum vér.

32. Svo med ódins elbíngar Star snotr-ir leika Einginn stód af þrælum þar Pak-inn blódi jørdin var.

33. Hildar sláttar engjum á Jtar þreitu kénna Málgast átta adrir þá Einn þó mátti hædstann sjá.

34. Øllum bar sá hærra haus Hriki mikid digur Æru var og eirdarlaus Odins skar því tendra kaus.

35. Líkafrón réd frétta þrjá Félaga dæla sína Hvørt þeir fróni fýsist á Fleina tón vid sjø ad há.

36. Eda ráda allir þrír Á þann háa fjanda Hjørs þar brádum hækkar gnýr Hér um tjádi Popill skír.

37. Hægra má í hildar tón Honum einum granda En alla þá ad fella á frón Frægur tjáir Kéladón.

38. Eg vil heldur sjø í senn Sækja klækja vini Kóngsson veldur orku enn Af því seld er gjæfa tvenn.

39. Honum séft ad hentast var Hrikann leika vidur Hjørinn besta hefir snar Hetja mesta veraldar.

40. Eg skal tjádi ødlíngs ver Eggjar leggja ad trølli Hamíngjan rádi hvørnig fer Hugar dád ei bilar mér.

41. J því þræla þrýstid lid Pángad gaungu nádi Tók ad mæla mann-trøllid Mjøg ósælir verid þid.

42. Þér erud hraustir þad má sjá Þann-
ig menn ad fella Reyna trausta egg eg á
Eirdarlaust svo hefndum ná.

43. Kom þá framan fyrst ad mér For-
ínginn þorir svara Bádum saman okkur er
Ætlad gaman, sverda hér.

44. Dável eg mun þora ad þér Puldi
hinn gildi rekkur En fagurlegann brand þú
ber Og bitrann þegar illa fer.

45. Sonur hradur tiggja tér Trolla il-
ur maki Tal um þad ei treinum vér Tok-
um hvad ad hendi ber.

46. Brandinn bregur blódstorkinn Besti
hreisti dreingur Ogurleg var atförin Aptur
vegur móti hinn.

47. Saman eingist fridlaus fold Fyrir
sporum beggja Sækjast leingi svo á mold
Sárin eingin þádi hold.

48. Kéladóni kvedum frá Korbann þordi
reida Móti tónar tveimur sá Tirfíngs bóna
skjöllin há.

49. Báda særir beittum hjör Brjóstast
móti hinir Voda fær um víga-stör, Var
sem ærist hetja snör.

50. Sér nú hann ad hvergi má Hik
vid leikinn buga Gégnum annann geirinn
blá Gínga vann ad hepti þá.

51. Sár og móður svo var þá Sigars loga bjóður Fellur sóðann ofan á Í hans blóði hrepti dá.

52. Helsar tjónið hinn sem stóð Hetju veita fýsti Þángað ljónið ólma óð Ekki sjónin þókti góð.

52. Næsta hart í fángið fer Fjalla ill- um kauða Holund snart á brjóstið ber Britjar hjarta í tønnum sér.

53. Kaffon annann kauðann finn Klof- ið hefur niður Er nú hann svo uppgéfinn Eggjar spanna mundi hinn.

54. Kappinn Demas svoddan sá Sóða blóðið veður Milli kémur þeirra þá Præll- inn fremur gugna má.

55. Demas bana bráðum réð Beitir ljótum hlýfa Pann andvana eg kalla kann Í kvalir flana Niflheims vann.

56. Tvo af þremur dáða dýr Drepið Popill hefur Pegninn fremur þreita lýr Þángað Demas líka snýr.

57. Demas fann sá einn sem er Eptir krapta hefur Sárum hann sig vaskur ver Vopnin manna sýngja ber.

58. Fjalla búinn fast og skjótt Fótbít ljótann reiðir Hetjan búin hug og þrótt Hleypur nú að manni fljótt.

59. Fángbrøgd taka frægir þá Fast af mestu abli Demas þjakast meira má Mjøg varð hrakinn velli á.

60. Víkur Demas vøllinn á Velkur biltu mikla Ljónið kémur þángað þá Petta grem= ur nú að sjá.

61. Hramm við eyra ljónið laust Lúð= um kauða af mæði Hann ei meira hefur traust Hneig á leir og misti raust.

62. Sundurrífur þegninn þá Prekinn drekinn hramma Honum lífið flúði frá Frem= ur kíf ei þarf að há.

63. Eg er veikur vígs um svið Að vaka þikir hætta Byrni leika og ljónin við Litla smeikur tek eg bið.

# Áttunda Ríma.

Verðum ljóðin lífga ní Og lagi smá um= breita Kvæða skjóðum øllum í Suuþá má eg leita.

2. Þótt eg aka meigi mér Og margann eigi baga Einn eg vaki yfir þér Ólåns greiið, Saga!

3. Á þínum held eg efnum ei Eins og vilja hinir Aldrei held eg audnist, nei! að við skiljum vinir.

4. Ut tangadur þróttur hver Við þig og

þennann glíma Einginn madur aumur sér A mér þennann tíma.

5. Eingin snótin, nei, nei, nei! næríng lér mér sýna Pær eru ljótar, svei, svei, svei! svona mér ad tína.

6. Eingin semur ord um kaup Eg þó ljódin sýni Einginn kémur inn med staup Af því góda víni.

7. Von er andinn veikliſt hér Og verdi þraungvir gómar Fløſkur standa framaní mér Fyrir laungu tómar.

8. Ad eg þvætti þannig brag Pad skal einginn vona Eg vil hætta og í dag Ef þad geingur svona.

9. Ef ei sjáum vænna val Vísna spjøllum brínum Fleigja þá til ſkrattans ſkal Skrædum øllum mínum.

10. Og svo þeigja eins og steinn ÆE med biſtu ſinni Jafnvel deija og dúra einn Djúpt í kiſtu minni.

11. En Stúlkur gráta munu mig Mærd ef nái kirkja Pá skal láta sýna sig Siggi er frá ad yrkja.

12. Eg svo deyi ekki hér Elſkulega gódar Konur og meyar komid þér Ad kitla mig til ljóda.

13. Pótt ad ríngar séu um sinn Sylf-

ur- grunnar toskur Komid híngad allar inn Am: ur, Tunnur, floskur.

14. Hægt má reyna hvornig fer; Hlýdi sveina mergdir Rímu eina hefsum hér Hún þó seinust verdi.

---

15. Hefsum tón um þáttinn þann Púng- ar rendur gnúdi Líkafrón vid fjallbúann Flein og hendur lúdi.

16. Eptir skilu høggin hørd Og hríd sem undra nádi Seggir hvolla sig á jørd Sjóla kundur tjádi.

17. Finnst mér ad þú frækinn sért Fetla nad berandi Hitt er skadi ad þú ert O- láns madur og fjandi.

18. Hættu ránum, skuldi og stygd Stædst þess án mun ekki Sættu láni og búdu í bygd Bættu smán og hrekki.

19. Hái fjalla hrikinn tér Hvørgi þó þér blædi Hugur allur horfinn er Hvada ófjálfrædi?

20. Sverda gínar svara réd Svo:dan valla eg þoli Mig þú brínir brixlum med Baldinn fjalla svoli.

21. Ef ei hlíft eg hefdi þér Hjørnum mínum bjarta Mundi stíft af herdum hér Hjarna skrínid svarta.

22. Nú skal sýna um sóknar reit Svo ei blaudann tjái Hvad í mínu valdi veit Vid þig kaudinn gräi.

23. Í augabragdi einu þá Ödlíngs fund= ur frídi Stokk og slagdi benja brá Brast ei lundar prídi.

24. Sverd úr hendi hinum slær Hraut þad lánga veigi Hann vill endur ærdur fjær Undan gánga þeyi.

25. Tekur hønd á kóngsins fund Korda ýmir hreggja Titrar øndótt undir grund Ögna stími beggja.

26. Kóngsson þar um hildar haf Vid hardann gnar stikla Nú má spara ekkért af Abli sínu mikla.

27. Foldu gnúdu fótspor hraust Fjöllin spúdu hljódum Moldin sludi og loptid laust Ljóss frá údar bjódum.

28. Akaflega ódins mær Undir heit má titra Líkt og þegar Loka slær Linna eitrid bitra.

29. Stiga = madur mædost fer Midjúngs þakinn skýlu Gramson kvad ef veiga ver Vill nú taka hvílu.

30. Hinn þau ærist ordin vid Ei um slokun bidur Holdid særist fjærri frid Fast átokin vidur.

31. Svo fór kall í herdar hart Hvarf gjørvallur fridur Mátti falli verjast vart Vísirs snjalli nidur.

32. Reyndi slíngur mest á megn Manninn undir færdist Hóf á bríngu þrekinn þegn Par vid grundin hrærdist.

33. Nidur rekur feikna fall Fleina kaudsann yggur Aungvit þrekinn þádi kall Par sem daudur liggur.

34. Demas einn á velli var Vígur þá, enn módur Kóngsson hreinn þá samdi svar Saxa frái rjódur!

35. Smyrsli taka mín hér má Málma hár ad gøgnum Skeinur maka allar á Okkar sáru brøgnum.

36. Mikli kappinn vitkast vann Vafdi kvala treigi Spyr nú happa hetjan þann Hvørt ad tala meigi.

37. Eda kvad hann er þér meint Eptir strídid bjarfa Stigamadur svarar seint Sjóla frídum arfa.

38. Dægur kalla eg komin øll Kann eg rétt um greina Eg mun valla fleyri føll Fá enn þetta eina.

39. Verka minna greidast gjøld Grimdar stinn ad hæfi Til þín finnur fleiri øld Fyrr enn linnir æfi.

40. Spyr ad nafni segginn senn Sjóla burinn teiti Mettir hrafna mælti enn Manlíur eg heiti.

41. Kappinn gildi Kóngsson tér Ad kynjum leidir grófum Ad þú vildir velja þér Víst med heida þjófum.

42. Hinn réd svara æsku í Eggjum bardi eg granna Ódæll var og út af því Utlegd vard ad kanna.

43. Fylgdar sveina eg velja vann Vaska ad hreisti og lundu Frægd vid reina flokkinn þann Fæstir treystast mundu.

44. Fjóra menn eg fælbist síst Flein ótregann beija En nú kénni eg má víst Endilega deya.

45. Þegar borinn barn eg lá Og bjó hjá módur traudri Eg var skorinn sølur frá Fata tródu daudri.

46. Mín er æsin undarlig En þær stundir dvína Veit eg gjæfan vill um þig Vefja mundir sínar.

47. Hygg eg minníng leingst um lønd Lísi þín med prýdi Bón af þinni eg þædi hønd Þorna brýnir frídi.

48. Fóstri þínu er fyrst mátt sjá Funa vegur-brúa Ósta eg mínu heiti hjá Happalega ad búa.

49. Þýngju þúnga fallinn fær Fylkirs kund og tjádi Géf þeim únga álnir þær Orfa lundur fjádi.

50. Brjóti hneita hetjan væn Hollast svarid metur Þér má veita þessa bæn Ef þannig farid gétur.

51. Fjalla búinn fölur dó Fyrst ólinur tára Kóngsson nú sem best um bjó Bragna hina sára.

52. Hlinir stála hressast þá Hvørgi mundu bída Heim í skálann skatnar ná Skammri stundu sídan.

53. Svo med ró þar setid fá Sumar mundi líða Sárin gróa øllum á Orma þundum hlýda.

54. Vistir smáar virdtust þá Vidur stækinn korda Bigdum frá lét þegna þrjá Þarfann sækja forda.

55. Gautar skjalda góda ferd Gjørdu þá til sveita Róg var gjald og gripa mergd Snægd svo fá ad neita.

56. Lofdúngs kjæri Arfinn enn Avalt gjæta lætur Hvørt ad færu ferdamenn Fjalls um rætur vætur.

57. Skyldu gjæta ítar eins Og á vegum prófa En hvørt sætu ei til meins Útilegu þjófar.

58. Sér hann bad ad seigja frá Svo ef skyldi vera Vildi nada veisir þá Vetur hildar géra.

59. Eitt sinn kémur Kaffon heim Kned-jum á ad fagna Fréttir semur frækin heim Fjóra sá eg bragna.

60. Sunnan yfir ferdast fjøll Frlkirs tjádi nidur Holda lisi hreistin snjøll Hvet eg brád st ydur.

61. Hvad þeir bera bøggum í Brádast viljum frétta Undrast verar álma því Ekki sk ljá þetta.

62. Demas tjádi veiga ver Vikid mundi ydur A ef rádist þegna þér Þjófa lund sem bidur.

63. Adur valla eg þeinkti þó Þú ad mundir ræna Og um fjallid raska ró Rísa lundum bæna.

64. Þú hefur ádur lasta lid Lamid hér um veigi Þú munt ráda þínum sid En þángad fer eg eigi.

65. Ei til smánar mun eg mér Magna stiksa hildi Né ad ránum þjóna þér Þótt ad lísid gildi.

66. Kéladón med sømu svør Sagdist frá þeim kosti Líkafrón til æru ør Ansar þá og brosti.

67. Aldrei meiníng mín var sú Mein þeim vinna skyldi En eg reyna ykkur nú Einusinni vildi.

68. Samt skal fara og finna þá Freyra snjóar hnúa En samt varast víga = skjá Til varnar þó oss búa.

69. Sverda snarir hlinir hér Ad hitta menn á veigi Meiga fara fyrir mér Fylgja nenni eg eigi.

## Níunda Ríma.

Hljómar dagur látum brag Létta Þúngum huga Ljódin kvendi hálf oddhend Hérna læt eg duga.

2. Efnid hér sem bók framber Vísna líst mér stagad Fegri hátt um þennann þátt Því ei fæ eg lagad.

3. Margur fer á flædi sker Fyrir dýra bragi Og um leid á austra skeid Arar tínir lagi.

4. Vitlaus spinna vanyrdin J vondum hátta brotum Thúir máli trublud sál Af túngu og hugar þrotum.

5. Skálda ber þad skylda er Skilníngs krapta vidur Audga mál og ypta sál Upp enn þeigi nidur.

6. Þeir sem nýum ódi í Ordspillíngar -

heya Allt eins mér og ødrum hér Er þá best ad þeigja.

7. Ei eg skyldi af eigin vild Yrki þessi rita Tóna skrá eg teya má Til ad fá mér bita.

8. Walla søgur vanda mjøg Wirdar sumir géra Margur bygdi ljód á ligd Ljótt þó sýnist vera.

9. Søgum litt þó sýngi títt Sjálfur ráda má eg Fyrda gédi er fyrir kved Fylgja og þjóna á eg.

10. Pesśu í eg basli bý Bragi hálf-naud-ugur Sveima má ad sagna skrá Svona litur hugur.

---

11. Líkafrón med blída bón Bidur med sér fara Ferdamenn ad finna senn Funa týri vara.

12. Fara þeir svo girtir geir A gøtur ferdamanna Bygda þjódin þá um lód Páng-ad ferdum anna.

13. Brádum sjá þeir bragna fá Bída sín á gøtum Stigu af hestum búast best Blindar ljósi og føtum.

14. Kóngson tér og framm ad fer Ferda-mønnum gløggum Heilir þér til handa mér Hvad er gott í bøggum?

15. Einn gaf svar sem øtull var Essin framm ad teima Fyrst ei eru fleiri þér Fær hvør sitt ad geyma.

16. Stansar þá að stálin, blá Stigamenn ei reyna Gramson fór að gráum jór Greinir við þá sveina:

17. Hestinn betri um fýla flet Finna einginn mundi Gekk til sá er essið á Ödlíngs svarar kundi.

18. Séj st mér að géfinn þér Gillir sé hinn fljóti Kóngson tér því efni er Einkum tvennt á móti.

19. Leidt er mér ef bygð í ber Bráðum það í spjalli Kúgað hér eg hafi af þér Hest á reigin fjalli.

20. Eins ef þú af ótta nú Essið frá þér lætur Hestinn má ei þiggja þá Pótt að sýnist mætur.

21. Hinn réð tjá oss hvörgi má Hræðslaum eðar smjúga Líst mér þið nú létjist við Leiðar menn að kúga.

22. Það er sát að fyrirsát Fýsist þú að géra Kémpan háa hermdu frá Hvað til þess má bera.

23. Sólarlóna Líkafrón Lundi kvað hið rétta Liggjum vér til varnar hér Og viljum láta frétta.

24. Feingu hjá oss feigðar þrá Fjalla margir búar Sérhvör má nú ekru á Ohult leiðum snúa.

25. Fylkirs ver hann frædir gér Um fóstbrædranna æfi Og orustu þá er þordu þá Peir med sigarlæfi.

26. Hinn kvad þá á þér eg sá Pad og flokknum trúa Ad þeigi mundi þræla lund Pér í hjarta búa.

27. Ykkar bygd frá okkar bygd Ætti launin bestu Fyrir verkin stór og sterk Sem stidja høppin mestu.

28. Skálann í svo fyrdum frí Fylkirs arfi bídur Hjølumst vid enn hinna lid Hvatann þángad rídur.

29. Nætur þrjár med hjørfa hár Hérads-búar dvelja Kaupmann bidur konúngs nid Kyn og heiti telja.

30. Grískur er eg gramson tér Greindi nafnid sanna Nú er hér þad næst til ber Nordurlønd ad kanna.

31. Ekki meira mundu þeir Af mildíngs arfa frétta Búast þá til ferda fá Freyrar handar kletta.

32. Oss ef hér kvad ødlíngs ver Ætlid launin nokkur Heim um berid bygdir þér Bodin þau frá okknr.

33. Fá eg vil sem fékk med skil Fjalla þjófa audinn Peirra her um héra ver Hefur sókta daudinn.

34. Í minni hønd um hofnir, lønd Hafa vil eg eigi Annad fé enn frjálst þad sé Og fullvel ráda meigi.

35. Ferdamadur frægur kvad Fjøllum sunnanundir Nefndur hér eg herra er Helst um þessar mundir.

36. Því eg má um þetta sjá Þeigi á talar dreigin Þú skalt fá þad fýsist á Vid fjøllin bádu meigin.

37. Skulum vér ad vori hér Vitja aptur híngad Enn hvørt vilt þú ei hestinn nú Hirda kempann slínga.

38. Hinn hvad nei eg hestinn ei Hirda vil ád sinni Aptur hér ef hittumst vér Hins eg óska kinni.

39. Jóra sérhvør hefdi hér Hinna kappa vorra Gjaldid ber ad greidum vér Því gripa eigum þorra.

40. Hinn hvad já og hvatar þá Hófa þadan svínum Kappar fá med kjæti ná Krd í skála sínum.

41. Þad bar til um þettad bil Þeim ei frægdir skeika Bordum frá þeir frægu slá Fóstbrædur til leika.

42. Bildast vedur gladdi géd Gauta mistar hreggja Heirist ein ad ørin hvein Innt hópinn seggja.

43. Kéla'ðón fær kvala tjón Késjan hetju miðja Hitta réð á bana beð Bauga lagði þriðja.

44. Líkafrón við soddan sjón Seigir hvaða brøgðum Beittir eru holtar hér Af huldum jøkla fløgðum.

45. Fari heimar fljótast heim Og feti í króka víða Manntjón vér ei viljum hér Af vondum fremur líða.

46. Næsta snør flaug ønnur ør Í því framm úr leini Kaffóns hlið sú veltist við Varð þó ekki að meini.

47. Þriðja frá og fjórða þá Í faldin kápu síða Ðrin smjó með æði þó Ödlings sonar fríða.

48. Døglíngs ver við Demas tér Þá dreingir koma í skála Þjófar búa nærri nú Nei kvað Vörinn stála.

49. Jøtna þrjá eg þekkja má Þar á vestur fjøllum Híngað vart eg veit so snart Von er á þessum trøllum.

50. Firna hjørð þeir hafa á jørð Í hellir einum byggja Skógnum frá þeim fjøllum á Fólk úr bigðum stiggja.

51. Skoða náir skeitinn þá Skjøldúngs-bur og mælti Kvennmanns skeiti víst eg veit Virðist fleirninn stælti.

52. Sanna þeir með sverðafreir Søgu þá og trúa Demas kvað í duldum stað Drósir sjø hér búa.

53. Með þeim 18 kvendin kát Kunníngja sér áttu Hart á leir þá hnigu þeir Hversa slúkur máttu.

54. Jllt er það svo kongson kvað Konur okkur bugi Kaffon þú með kjænsku nú Kénn oss ráð svo dugi.

55. Korða stjá við konur há Kís eg øllu síður Kaffon grundar góða stund Greinir þær og biður.

56. Mælir sveinninn af oss einn Eitt það ráð vér hljótum Peirra sprunda fari á fund J fata tøtrum ljótum.

57. Særður hrigð úr suður bigð Seigjast skal hann vera Viltur háu heiðum á Og húsgángs poka bera.

58. Gjæti hann í hamra rann Hjá þeim nokkuð dvalið Vopnum ná og faungum frá Fljóðum tel eg valið.

59. Géta má að mann sér fá Meyaleisin vilja Okkur slá enn einum ná Eptir hann so skilja.

60. Eflaust þær oss optar nær Ætla eg verið hafa Víst þig sanna eg vitrann mann Visirs bur nam skrafa.

61. Munt þú glettinn géta rétt Enn gjøra meira verdum Helst þig vil eg hafa til Ad hvata slíkum ferdum.

62. Illa er farid ei eg var A þeim heilla tídum Fús eg mundi finna sprund Og fadmi vefja blídum.

63. Audna sú fæst ekki nú Eina med sjø ad lífa Pad er frá eg þagna má Pessu á ad klifa.

## Tíunda Ríma.

Konum hródur helgum vér Hugar mód þad skérdi Øllum gódum heilsad hér Hríngatródum verdi.

2. A ljódunum aldrei spar Efni eg svona smídi Meiar, konur, kérlíngar Kvædum vona eg hlýdi.

3. Hrædumst vér í þánka þad Peigi hér eg sanna Hænist mér nú meiar ad Mærd þó géri anna.

4. Heims skeidvelli halla fer Þó hátta gélli smídi Hnigur elli á hendur mér Horund fellir prídi.

5. Mér vill stórum mædast hjá Muni sljór og hugir Pótt eg klóri þessa frá Prjá um fjóra tugir.

6. Pegar úngir vorum vér Viljug túngan

hværdist Herjans súngu svanirner Sál óþúngud nærdist.

7. Brúda þá mér budust smá Brosin dá med kjæti Knjánum á og hlidum hjá Høfdu þrávalt sæti.

8. Kjærtu oss þá ljódinn laung Logadi blossi kinna Fékk eg kossa fyrir saung Falda huossa minna.

9. Nú mér bægjast fremur frá Foldir ægirs glóda Láta nægja mér eg má Medan fæ eg ljóda.

10. Audna sú sem ádur var Og øll mín trú ei dugar Kved eg nú um kérlíngar Krapti rú-inn hugar.

11. Hátta vinnu hlýdid þá Hrokkinskinnur kríka Sjø eg finn í fjøllum há Fata innur líka.

---

12. Kasson svarar niblúngs nid Nógu snar ad rádum Kannské eg fari og kvenn-fólkid Kyssi þar í nádum.

13. Svo eg vinni veiga gnár Ef veigin finn á grundum Valla winna enn vikur þrjár Vil eg finna sprundum.

14. Koll sér þegar klippa fer Kís til vegar halda Bødulslega búinn er Bør ó-tregur skjalda.

15. Poka skrædu á baki bar, Bragna

fædist gaman Rod og bræðíng þegnar þar Prýsta nædu saman.

16. Tók sér prik og hélt í hønd Helst sem þykir nægja Boginn strikar burt um lønd Bragnar mikid hlæja.

17. Lundar stiggur fór ei fljótt Funa yggur láa Uti liggur næstu nótt Næríng þiggur smáa.

18. Kvøldid annad eptir þá Ekki ad manni frídur Hellir fann og hnjánum á Hljódt í ranninn skrídur.

19. J dyrnar hræid høkta réd Hita bæa fjúkin Snøgtir, æar, emjar med Allan klæar búkinn.

20. Sjálfum sér svo talar til Pó trublast géri hyggja Deya hér eg heldur vil En heidar berar liggja.

21. Snøtrar tønnum framm á fót J fasta ønnum stigur Tára hrønnum fellir fljót Fari ósønnuligur.

22. Pegar hrædan verdur var Sem výl og mæda þreyngir J mirkri slædast meyarnar Meina kvædin leingir.

23. Húngurs tølur semur sér Síst er vol til þrifa Opt var bøl í bygdum hér Og bølvud kvøl ad lifa.

24. Nú fastandi nætur þrjár Neiddur vanda leiðum Lá eg anda og illa sár Af þeim fjandans heiðum.

25. Nú helfredin fæ í bæ Fjöri léðu tína Svíðnr að nedan æ æ æ Eymdir géðið pína.

26. Ljósa-skar ei læst hann sjá Sem. log-ar þar í ranni Tvær nú fara framm að gá Forvitnar að manni.

27. Til hans gánga og tala nú Tjáðu lánga móður Hvaða ángur hefur þú Hvör er spánga rjóður.

28. Upp nú þreyngir ópi grey Í ein-um keíng svo vælir Eg-er einginn ekkért nei Elsku dreingir sælir.

29. AE æ deyðið ekki mig Amar neyða sægur Svángur heiðar svalann stig Sex eg skreið um dægur.

30. Stúlkur frétta ertu einn Um það rétt hann sagði Andlits grettur svara seinn Samt til þetta lagði.

31. Heimsku svín eg hætti á Hoppum týnir glanni Af sultar pín eg slúði frá Föð-urs mínum ranni.

32. Sækja í norður sveitir lands Sult-ar forða vildi Vælu orðin veslíngs manns Vörin borða ei skyldi.

33. Honum hvælist túnga um tønn Titrar, vælir, snoktir Trúið skjælir tára brønn A tánum fælinn høktir.

34. Málið hinna heyrast fer Sem húsa kinnum ráða Leiðum inn og vermum vér Veslings skinnið þjáða.

35. Sveinn með néttum sætum þá Salin kletta tróðum Honum sléttast fætur á Fælinn dettur óðum.

36. Færa inn að elda gléð Að svo blinna náðu Í følar kinnar færist blóð Fljóðin svinn þá tjáðu.

37. Þitt er ekki andlit stirðt Orma stekkjar njótur Vel um rekk ef væri hirðt Víst ei þekkist ljótur.

38. Flíkur klaka kámaðar Kvendin taka af sveini Bökin nakinn bera þar A beð svo slaki meini.

39. Sæng var góð og sæmilig Sem hinn móði báði Hrakin slóðinn hresðir sig Hann við fljóðin tjáði:

40. Þettað hæli lífið lér Og léttir fælu blundi Efað þræl mig ættuð hér Eðsta sæla mundi

41. Ein nú þá svo ansa fer Elda láar dína Verða má þú hýrist hér Ef hlýðni sjáum þína.

42. Þarna inni sjø hann sér Sóma kvinnur búa Ræg þar finna einnig er Aud-legð tvinna brúa.

43. Snótir ræða um þetta þá Að þigg-ja gjæðin náða Hvørt að læðast eingin á Undir klæði snáða.

44. Finna og þreifa fyrir sér Feingist leisi í hljóði Hvørt að hreifíng eingin er Í hans deifu blóði.

45. Þar um síðast semur hljótt Sægur blíðra sprunda Að láta bíða leik í nótt Ljóss hjá víðir sunda.

46. Í hvílu draga sætur sig Svefna lagast bólin Kémur dagur ljómaleg Leið um haga sólin.

47. Þegninn hrítur hvað sem skér Hit-ann nítir klæða Ekki brítur blund af sér Brúa nítir glæða.

48. Vekja blíðar brúðir mann Brønd-íngs víðir stræta Sagðist kvíða og kjøkra vann Kulda og hríðum mæta.

49. Þannig barmar þrútinn sér Ur þess-um varma hlýum Í vota garma að vef-jast hér Veldur harmi nýum.

50. Ein svo lagar orðin ber Ut um slaga veigi Þú í dag ei frá oss fer Fyrst nú klaga eigi.

51. Fatnad nían framm hún bar Fara í sem bidur Klædist því og vaskur var Vasfurs día svidur.

52. Lék vid fíngur sérhvørn sinn Sveigir slíngur branda Hlær og springur út og inn Eyar kríngum banda.

53. Um hann þvætti er mín lyst Ad hér mætti búa Nú svo ætti vetrar vist Vanda bætti og lúa.

54. Kallmenn þá hér koma heim Kvída þrá mun beigja Aptur má eg útá sveim J æslum snjáa deya.

55. Svo vid dreinginn segja fer Svofners eingid haga Kallmann aungvann'eigum vér Einar leingjum daga.

56. Vid hann fljódin vóru blíd Veittu gódar trygdir Leid svo ódum áfram til Aungvar bjódast stygdir.

57. Kvenna ángur vekjast vann Sem vildu fángid bjóda Seinn í gángi gjørast vann Grímur háuga slóda.

58. Finna leini eitt sinn í Audar reynir vitrar Grét og veinar nú á ný Røldrar hrein og titrar.

59. Manninn hrelda frétta fljód Og fadma heldur blídar Æ hvad veldur elskan gód Ert þú seldur kvída.

60. Æ eg dey hann ætti þá Ei má treigi létta Æi nei eg ekki má Ykkur seigja þetta.

61. Eg sem sladur aldrei ber Og ekki á þad er læginn Eg sem hradast enda fer Alsk padann bræginn.

## Ellefta Ríma.

Bera ljóda bordin á Bolla þjódans gamla má Vilji setjast visin ad Og vinid metja leingur þad.

2. Samt eg kvídi ad bjóda brag Bauga hlídum nú í dag Því ad klækjum kallmanns frá Kvæda flækja tóna má.

3. Veit eg hatur vinnur sér Af vænum fata tródum hér Seirdur kvenna svikarinn Svipljót enn er minn'nginn.

4. Hvad sem þar um hvør ein tér Hann forsvara ei verdi mér Því ekki mundi eg sem hann Auka sprundum hrekkja bann.

5. Svo í trygdum svíkja fljód Svæfir dygd í hugar lód Mér er ílla enn vid hann Sem ærn spilla hannig vann.

6. Víst ad unna þeim er þraut Er hannig kunnar ástir braut Og elsku móti selur svík Svoddan ljót eg kalla strikt

7. Kallmanns hjarta klokkna má Klaki svarta

ad lesa þá Sá sem trygd og sóma ann Sín má blygdast fyrir hann.

8. Hér ad leida ljóda spil Lvinn neydast má; eg til Einginn vildi eg þennann þátt Þorna skyldi heyra gárt.

---

9. Sínum eigin eymdum frá Ekki seigja vildi þá Hirdir tøtra er tárast vann Tønnum gnøtrar sárast hann.

10. Hann því betur blessud fljód Bidja ad letja húgar móð Greina allann sanninn sér Svona spjalla glanninn fer.

11. Mig í óláns ofvidrum Illa kól á døgunum Pad vill fremur sýna sig Og sárt nú kémur fram vid mig.

12. Kól þig seigja sætur hvar Sá réd þeya er meinin bar Ein réd þýda ordin snót Ekki kvída skaltu hót.

13. Smyrsli best vid høfum hér Hermdu mest hvar skadinn er Milli fóta hérna hér! Hann med ljótu ópi tér.

14. Pad er illa á þessum stad Pér er spilling komin ad Fljódin seigja ekkért er Oss sem meyum komi ver.

15. Sýn oss þó hinn særda stad Svei mér ó eg. gét ei þad Pó ad lísid lægi á Lundur hlífa rédi tjá.

16. Kallmanns sköpun á mér er Öll í töpun mestu hér Protinn æsist því ei má Pad óhræsi láta sjá.

17. Snildar fljódin þagna á því Pínga skjódu ad hnísast í Smyrsli bjóda brúdir frí Bauga rjódi holl og ný.

18. Vid þeim tók sá veikur er Vatr í krók frá sprundum sér Krika meidíng maka vann Med þad skreid í rúmid hann.

19. Nægum baga neiddur var Nokkra daga lá hann þar Eina stundu hetjan hörd Heyrir sprunda rádagjörd.

20. Fyrst um metast fljódin þar Fram og setja meiníngar Hvört ad ein eda allar hann Eigi ad reyna kvennfærann.

21. Rádin hljóta í þánka þær Pegnsins njóta skuli tvær Sín med honum hverja nátt Haldi konu leikinn dátt.

22. Hinar sættast þá med þad Pær ef mættu lædast ad Helst nær þreingir holdid til Heimta af dreing þau sóma skil.

23. Pær útvaldar vóru tvær Vin sig halda fóru nær Ástir bjóda og yndi þar En svo gódar blessadar!

24. Viku eina eptir hann Aptur reyna fætur vann Gángur mikist manni þá Mun á sliku fljódin sjá.

25. Spyrja blídar brúdir hann Bæta tídin mikid kann Hvørnig lídi um liminn þann Er ljóta hrídin skada vann.

26. Víst í standi ekki er Allt svo branda reinir tér Prautlaust hægja mér nú má Mun því lagid komast á.

27. Pílna tøsku eitt sinn ad Alma røsk- ur bendir trad Hvørnin þíngin heita slík Hann vid sýngur falda brík.

28. Greindu svannar satt þar frá Sér bad hann ad visin smá Vildu kénna vanda þann Vopn svo spenna mætti hann.

29. Hann vid flækist heilann dag Hreint ótækur ekkért lag A því fann ad hitta hót Hýr sem vann ad kénna snót.

30. Harmur æsist hans af því Hvatar næstu døgun í Hremsur hvetur hart sem má Honum betur géngur þá.

31. Einatt skaut um úlfa geym Orfar braut og týndi þeim Uns ad gerdist af þeim þrot Angrast verda meya brot.

32. Huggar fljódin hann og kvad Heill- ir gódar vitid þad Nokkud hagur af því er Orfar laga treisti mér.

33. Or nú smídar eina hann Endann svída í glædum vann Kvendin blídu kjærast- an Kalla prídis laghentann.

34. Sig nú æfir seggur snar Svo hann hæfir allstadar Uns ad þrotnar ørfar sá Eyddar, brotnar, tíndar þá.

35. Koma ad máli meyarnar Mynda af stáli ørfar þar Þýdar bidja þorna ver Því ad smidja væri hér.

36. Kaffon tókst þad bragna best Brúda jókst því ástin mest Lofa og prísa lista mann Er ljúfa hýsing med þeim fann.

37 Leyndarmálin fluttu frí Féd hvar skála geymdu í Því af gjæda gripum var Gulli og klædum mikid þar.

38. Eins þær tjádu allann sann Um sín ráð ad vinna þann Flokk ókénnda fjøllum á Er fylgju sendi mønnum dá.

39. Lidnar vóru vikur þrjár Vígra óra sídan hár Koma vann í kvenna rann Kulda bann þá neiddi mann.

40. Nødru heida nønnur þá Nitan beida ad hætta á Hvørnig gjæti tekist til Ef tærdi nætur blídum il.

41. Beidduft skoda berann stad Sem blídu vodin þreyngdi ad Og þeim allann sýna sann Søgdust valla meida hann.

42. Bídid litid blessadar Brjótur ríta mælti snar Heillt þá skinn er aptur á Ykkur finna mun eg þá.

43. Vikan líða enn mun ein Aðurstríð-ast grói mein Aungvu miður eg enn þér Oska kviður heilist mér.

44. Til mín læt eg taka þá Tuskið nætur skulum há Pótt eg tíu ætti einn Ekki líast mundi sveinn.

45. Oss má leiðast ansa þær Að er neyð ei feingum vær Fyrst þín sár að fjatla með Frekt því tára vætum beð.

46. Einurð skorti úngmennið Aður vort að þyggja lið Pulði kvika þráða spaung Pessi vika hún er laung.

47. Kom að orðum eitthvurt sinn Yfir borðum kémpan stinn Gamalt kjöt þá gáfu sprund Gjörist ötul nú mín lund.

48. Eg vil fara út um skóg Ekki spara dýrin nóg Svo að fáum ferskann rétt Freista eg þá að skjóta nett.

49. Öllum líkar áform það Oska píkur hann á stað Hvatast fari heill um sinn Og heim sem snarast velkominn.

50. Annaun dag með örfar þrjár Ut réð slaga gaungu frár Svo að kveldi kémur hann Kjæta heldur sljóðin vann.

51. Kémur þá með hjört og hind Herðum á og treður strind Pykir vasi einginn oss Að nú hafi feingið koss.

52. Dýrdleg var nú veitsla sett Vína skarinn fær sig mett Pókti svipstast þrautin flest Pá ad gipta sig var best.

53. Dørfa skéftir dýrin þrjú Daginn eptir sagdist nú Þau er allra vænust veit Vilja um fjalla sækja reit.

54. Ollu rád þú, elskan gód! Oll svo nádu mæla fljód Oll þig leidi audna há Oll þér sneidi naudin hjá.

55. Nú eg má í nótt á stad Reista lá-ar tírinn kvad Annad kveld enn eigi fyr Aptur held eg komi dyr.

56. Lítil føt og létt eg ber Ljúft því gjæda vedur er Frekast leid mun fótunum Frekt þó leidist snótunum.

57. Fárlegt er svo fljódin tjá Fötum vera þunnum á Betra er heitum haldir þér Hradt má breyta vedur sér.

58. Myrkrin villa og magna fár Mundu illa gróin sár Sig ef ýfa á ama stad Okkar líf mun kosta þad.

59. Haun kvadst mundi hér um sjá Heilla sprundin kisti þá Ut nam renna sama sinn Svei þér kvenna Falsarinn!

60. Illt er þeim ad unna beim Er arg-ann geymir svika keim Hefnda eldi atar géd Ástir géldur hatri med.

61. Jeg vid kvenna Júdas hinn Jagast nenni ei um sinn Til hans renna forakt finn Fela penna vil eg minn.

## Tólfta Ríma.

Hvad sem mæda hér eg finn þó heillir bídi Ekkért hrædi huga minn frá hátta smídi.

2. Grímners hrafna grejin mín þó gráni vedur Herda jafnan hljódin sín vid hinn er kvedur.

3. Um styttsta daga ætíd ár eg ód má herda Og þá laga leingstar skrár ef lesnar verda.

4. Vona eg stöku málid mitt í margra hljód; um Hafi vökur stundum stytt hjá stúlkum gódum.

5. Hvørt sem núna heppnast mér ad hirga kvendi Bráins dúna blídum grér þá braginn sendi.

6. Ef ad meta meyar hljód og meidma haudur Ef eg gét þá yrki eg ljódin allt eins daudur.

7. Søgur ádur frá því fóru frægda ydnir J haugum kvádu og kátir vóru kappar lidnir.

8. Eu af því heimi aptur fer og ýmsra gjæfa Daudum gleymist máské mér þá ment ad æfa.

9. Ungur hét eg opt á fljód í yndis fundum Medan eg gét ad gala ljód og géfa sprundum.

10. Leidum hvatar Kaffon þá med kapp ölina J. skálann ratar seggur sá til svinn-ra vina.

11. Honum fagna høldar best enn halur slægi Nú til fagna flutti flest af ferdalagi.

12. Hlátur leingja hinir þá er heyra fregnir Sonur þeingils eptir á þeim ordum gégnir.

13. Dýrin ber því dragir skjótt til drósa ranna Allir vér því førum fljótt ad finna svanna.

14. Brynju ónar brátt í svip á brautir sveima En þeir ljónin skálann skipa skuli geyma.

15. Høldar venda um hamra krár ad hellri drósa Þar í grend nam kóngsson knár vid Kaffon glósa:

16. Hvørt er betra fljód á før ad fæla úr ranni Eda setja ønnur kjør sem ófrid banni.

17. Sendill kvenna svar nam greida sigtír skjalda Þær vid menn ei ord né eida ætla eg halda.

18. Þeim mun æra eingin hjá til audnu bóta Strax og færi fá sjed á þær fridinn brjóta.

19. Nidíngs grei sem gleimdir þrá hjá gullhríngs frídum Þú mátt seigja svona frá þeim sætum blídum.

20. Þig í raunum hrundir hrestu af híru sinni En þú launar vondsku vestu véla slinni!

21. Kóngsson frægi greina gjørdi gauti hneita Ekki fæ eg af mér sverdi ad þeimbeita.

22. Brúdir hræddum hellri frá svo hrekist vída Spillum fædu og fari þá sem forløg hlýda.

23. Fyrir kjæran Kelabón þeim kált má gjalda Þótt ad særi sultar tjón þær seljur falda.

24. Kasson undan køppum fer og kom í skála Og vid sprundin ord framber sem óda mála.

25. Hvatid nú ad hjálpa mér med heppni freka Dýrin þrjú sem hradast hér í hellir reka.

26. Ut þær skopa eins og mí sig illa klæda Nærpils gopa gørmum í ad gaungum æda.

27. Risin allra og stud søt sá á þeim konum Huldu valla gøtin got á garmskinnonum.

28. Hvar eru dýrin hrópa þær og hurð um brjótast En þeir hlírar hversa nær í hellir skjótast.

29. Þeir á fjórum fótum sér í fjallið aka Inn þau fóru ein svo tér nú øll má taka.

30. Kaffon brá upp kérti þá og kunni glæða Brúðir fá hans svik að sjá og seggi skjæða.

31. Vopnum búna brúðir sáu brynju hauða Hrópa núna flýum frá og forðumst dauða.

32. Oss hefur svikið ómennið sem unnum heitast Hér er mikið meira lið sem meina leitast.

33. Ut í nætur húm þær hraða í háska slíkum Verar fætur fannir vaða framt að kríkum.

34. Ytar látast elta fljóð í ærnum skara Vopna kátir herða hljóð enn hvergi fara.

35. Síðan værum sángum ná þeir sverðin bíta Þar voru ærin faung að fá sem fýsti nýta.

36. Meiðar skeita að morgni vøktu mjøg ei bíða Fóru að leita og feril røktu fljóða víða.

37. Orma skérja ángráð gátt við ama svarið Sín í hverja hefur átt á hlaupi farið.

38. Fundu tvær við fjalla skriður fleina ráðar Hafa þær fyrir hamra niður hrapað báðar.

39. Fleyri þeigi fundust marar suna hlíðar Heldur eigi við þær varar verða síðar.

40. Bragnar taka í hellri hvað sem hafa vildu Heim svo aka þeir með það af þreki gildu.

41. Kaffon líka í klettum þá fann kinja. auðinn Sem að píkur sögðu frá er sókti dauðinn.

42. Svo um gétur sögu rím í sama bragði Þennan vetur hjarn og hrím á heiðar lagði.

43. Gramson þá við garpa tér með géðið djarfa Mun eg fá þið fylgið mér til fleiri starfa.

44. Jötnum þremur feigð að fá mig fýsi hvetur Sem þú Demas fræddir frá um fjalla setur.

45. Veita tröllin mesta mein og manna skaða Par um fjöllin ærðir einatt áfram vaða.

46. Popill svara fyrstur fer þá freyri fleyta Eg vil fara fús með þér og frægðar leita.

47. Kasson rædir fyrir fáa fleins að slagi Ráð mun bæði þurfa þá og þrek í lagi.

48. Demas flytja gildur gérir greinir svara Einn að sitja uni eg. ver ef allir fara.

49. Ljúfur kvedur Líkafjón við loxmenn blíða Nú er vedur vært að sjón og vænt að ríða.

50, Seig oss Demas frækinn frá þess ferssá krefur Allt hvað fremur þú um þá að þekking hefur.

51. Seggur hresti svörin snjöll í sanni veru Flagða vestu fjalla tröll þeir fantar eru.

52. Smala mirða mrækja þórar manna úr sveitum Fénað hirða og hjarðir stórar hafa á beitum.

53. Skiptast þeir að halda hjörð um heiðar granda Yngri tveir enn elsti hörðum á í vanda.

54. Hann má tíðast halda kør í horni þraungu Hinir víða hvata sør á hjarðargaungu.

55. Kaudar illir ønnur faung ei aura hirda En ad fylla idur svaung þeir audnu virda.

56. Þegnar blunda næstu nótt sem nád- um hagar Ad morgni skunda' á fætur fljótt Þá fyrst er dagad.

57. Þadan býr sig flokkur færi um fjalla hóla Med sér dírin kallar kjæri kund- ur sjóla.

58. Eins stór húninn ordin var og inn- an ljóna Heipt í brúna hniklum bar vid hildar tóna.

59. Búka tjalda blindar høklum brinju meidar Og nú halda ad austur jøklum yf- ir heidar.

60. Liggja heidum úti á og eidi fjøll- um Dýrin veida fugla frá til fædu øllum.

61. Dýrin nóg þeir fángad fá um flagdá veldi Undir skóginn ítar ná ad einu kveldi.

62. Lauf vid skála laga fljótt og lítid stúra Þundar stála þar um nótt svo þádu dúra.

63. Mig vill lesta letin øll og leingi bága Líka er best ad berja trøll um bjarta daga.

## Þrettánda Ríma.

Fyrst ad daga fer á ný Freista verd eg braga Annad lag má efna því Eptir rekur Saga.

2. Eg í háska hættum er Hvørnig sem eg rádska Heingíng máské hegni mér Helgann daginn Páska.

3. Ef ad búin ei er þá Allur, kvæda grúinn Minn hardsnúin snara má Sneipa hálsinn lúinn.

4. Lífsins gánga hriggir hag Heims vid kosti strånga En ad hánga helgann dag Hvørn mun til þess lánga.

5. Fár ei gét eg fordast hér Frelsid svo eg meti Hrekkjótt letin heldur mér Hjá sér þrátt í fleti.

6. Mansaung laga leingri nú Leida kann til baga Vetur hagar hal og frú Heyrd ad verdi Saga.

---

7. Frægdar menn ad morgni þá Mundum sverdin spenna Skóginn renna allir á Um þar litast nenna.

8. Hitta mundu feril fjár Fyrdar þar á grundu Heyra þundar hita lár Hljód í smala drundu.

9. Øll skalf jørd vid øskur treg Undraſt bragnar hørdu Dýrin gjørduſt grimmúdleg Grjótid hrømmum børdu.

10. Høldar ſauda hnappa þrjá Um haudrid litu auda Svo þar ſkaudaſt eptir á Ognarlegaań kauda.

11. Alna hár var trilltur tólf Tel eg gildann bára Peſsi ár um eika gólf Økla þreitti ſára.

12. Skjóttu kallinn Kaffon minn Kóngsſon brá ad ſpjalli Spenti allvel álminn hinn Eggja runnur ſnjalli.

13. Brjóst á bára bíldan ſló Bitirs freyu tára Ekkért ſár vard þuſsinn þó Peigi beit á nára.

14. Sjóla innir ſonur þá Svo vid kappa ſtinna Ekkért vinna vopnin á Veſtann fjalla ſlinna.

15. Eg minn góda unda ljá En ſkal trølli bjóda Falinn rjóda eitri á Ef eg næ til sóda.

16. Frægur branda brogi þá Bidur Demas ſtanda Par ſem fjantinn fái ad ſjá Forda ſér þó vanda.

17. Hann á klett er hjá þeim ſtód Hleypur ſpora léttur Glirnur bretti brúſa jód Um brírnar ekki nettur.

18. Seilast vill og sækja hal Svo hans lífi spilli Hinn frá stillir hrana sal Heppnast það með snilli.

19. Væna sendi völu steins Vaskur þá af hendi Í kjapti lendir mjøg til meins Mólans til hann kénndi.

20. Tønnur misti mellu-ver Mólann þegar kisti Skók og hristi skolt á sér Skrøggur lundar bisti.

21. Handlegg þá af hrika sló Hilmirs burinn frái Gauli háu úr hálsi spjó Helda draugur grái.

22. Dýriu bædi fara um fold Fremja grimdar ædi Rífa klædi hans og hold Hriklinn féll á svædi.

23. Handlegg annann hilmirs ver Hinn þá sló á glanna Wrist hann og øskra fer Eimslin nædi banna.

24. Kaffon skaut hans augu út Allt vard senn til þrauta Blés þá fautiun øndur út Einga bæn fékk tauta.

25. Dýrin ýfa daudleg sár Dólgnum ekki hlýfa Ad beini rífa hold og hár Hann svo marg af lífa.

26. Þá var dagur lágt um lád Er lokinn mundi slagur Vildi laga væni ráð Vísirs arfi fagur.

27. Kvaðst hann heim í hellirinn Halda þá með beima Fremur kleima sløgðin stinn Fyrir því má dreyma.

28. Hellir stinnar hetjurnar Í húmi loksins finna Gjæast inn að gaungum þar Gamlann líta slinna.

29. Sat við kétil svola trøll Sá var vartar metinn Kóngsson gétur kveikja spjøll Kinnum oss um setinn.

30. Bíðum vær nú því til þess Puss-inn upp úr færir Og gufu slær um glanna sess Gaungum þá í færi.

31. Svolalegur svelnir þá Soðníng þreif ótregur Kétil vegur funa frá Framm á gólfið dregur.

32. Brágnar æða innar þá Eldi brandi af glæðum Kasta ræður Kasson þá Í kjapt á dólgi skjæðum.

33. Herti sterkur staurinn á Stóð hann fast í kverkum Popill merkur þar kom þá Parsa tamur verkum.

34. Á hnakkann rekur stórann staur Stála njótur frekur Orga tekur ærdur gaur Eldi úr kjapti lekur.

35. Á Kasson spúði kinja glóð Kappinn skaðast prúði Kóngsson snúdugt að þá óð Yggjar klæddur skrúði.

36. Reidir korda á hálsinn hratt Hian sér má ei forda A hamra stordid hausinn datt Hann fékk ekki ad borda.

37. Sálu freyr þá fallinu lá Fofners runnar leyra Öskur heyra innar frá Öll-um býsnum meira.

38. Dunadi fjallid vid drunur þær (Dá-vel lætur kallinn) Hristist allur hamra bær Hann var nærri fallinn.

39. Likafrón þar innar ód Enn er von á tjóni Bædi ljónin berja mód Búk á hamra þjóni.

40. Hefur kall úr bæli brølt Bøgta vill á palli Gamlir falla verda vølt Veikra bein á hjalli.

41. Upp hann stadid ekki fær Ad því verdur skadi Ohugnadar gédid grær Gaur-inn þrá-beljadi.

42. Auka þrúnginn ædi gáng Öskur hans og túnga Ljónid únga flaug í fáng Fjalla draugnum þúnga.

43. Kallinn teigir hendur hast Hlífa sér ad meigi Hrigginn sveigir hann svo fast Hræríst ljónid eigi.

44. Kaffon vendi øtull inn Med eldi-brand í hendi Í kjaptinn endan keyrdi um sinn Kallinn skada brendi.

45. Litt vid hlýfist ljónsinnan Af leggjum prestid rífur Samt í kífi heldur hann Hinu burda stífur.

46. Prísti fast á funa staur Frægdar kappinn hasti Ormagnast og øskrar gaur Elli seldur lasti.

47. Unga ljónid losnar þá Linast fjalla drjóni Líkafrón á leikinn sá Líka vard ad tjóni.

48. Kylfu fundid hefur hann Hvata þángad mundi Høggin dundu á hráskallann Hrikinn blés og drundi.

49. Aulinn kola eldi spjó Eimslin vard ad þola Hinn í mola hausinn sló Heida digrum svola.

50. Umbrot stíf med ærdum bol Ærsti draugur hlýfa Dýrin rifa hann á hol Hausa brotin drýfa.

51. Þola midur margur kann Meina þúngar hvidur Samt eg bid menn haldi hann Heiminn skilinn vidur.

52. Ur hellri draga høldar þá Hrika dáda raga Brautar haga breidum á Bál ad þjófum laga.

53. Sídan skunda í skálann þar Skiptast til ad blunda Ekkért funduer fémætt var Fenju njótar punda.

54. Hausi undir þussans þá Er þaði dauða stundu Sax er mundi af gulli gljá Gautar seima fundu.

55. Hæla allir þessu þá Þíng hið besta kalla. Eg mun valla vopnið fá Og vil ei um það spjalla.

56. Rímur laga leiðist þær Laung og stirð er saga Eg í dag hef tónað tvær Tel því náðir haga.

## Fjórtánda Ríma.

Nú eg ei við hendi hefi hætti mjúka Afhendíng má eina brúka.

2. Þeir sem vilja þjást á hinum þíngri brøgum Fjærri mínum lifa løgum.

3. Eg vil mína eingum ráða að æfi síði Sem þikja ekki þeir að liði.

4. Finn eg þeir sem fara með þá fegri bragi Eru skáld af skárra tægi.

5. Ef að eg í ofur bragi óvart villist Meiníng bæði og málið spillist.

6. Hinir trúa að hátta dýrð með hugsun aungva Skapi hrósið skálda saungva.

7. Ef þeir þar með hæðstu hljóð úr hálsi keira Attþætt ljóð og annað fleira.

8. Aðrar vísur allar halda ofur rínger Nefni-lega Norðlendingar.

9. Eddu glósum unna þeir sem allra mest=
um Þó þær verdi ad þánka brestum.

10 Hitt þeim líka hædstum þikir heidri stýra
Ad hníta saman hætti dýra.

11. Þvílík ljód sem þur eg tel ad þánka
og efni Helst eg vildi heyra í svefni.

12. Hinna þjóda hættir vilja hjörtun næra
Og þau til ljóðs úr þöku hræra.

13. Hjá þeim ekki hugarkrapta held eg ríra
Hljódstafi né hætti dýra.

14. Síst eg adra sida vil því sannad hefi
Sýngur hvør med sinu nefi.

---

15. Gat eg fyr ad garpar þrír med
glødu hjarta Sarid skoda sólar bjarta.

16. Popill einn til orda þeirra ekkért
lagdi Stód og horfdi á það og þagdi.

17. Líst þér ei spyr Líkafrón hann líkt
og okkur Sarid betra enn soedja nokkur.

18. Sarid er og sýnast má nam seggur
letra Øllum vopnum ødrum betra.

19. Kaffón seigir kannské eg eigi í kollinn
gátu Virdist mér ad vidur plátu.

20. Eiga vilji ágjætt sax því ei hinn
kræsi A þad vopn sem honum hæfi.

21. Fadir hans þér fékk í hendur stein=
inn besta Soninn lét því brandinn bresta.

22. Vita þóktist veiga týr ad vænum sveini Sjá þú mundir fyrir fleini.

23. Sanna kallar søgu þessa sjóla nidur Og Popil sarid bera bidur.

24. Hinn kvadst vilja honum þad í hildar klidi Seinna komi sar ad lidi.

25. Koss og þakkir Kóngsson fær af klóta þundi Sig hann gyrda sari mundi.

26. Fara sídan fram um skóginn féd ad skoda Sterkir runnar stjørnu boda.

27. Í øllum stødum féd þeir finna frídt og valid Fjøgur þúsund feingu talid.

28. Fjalla milli fundu skóg og fagrar lendur Þá nam tala kóngsson kéndur.

29. Land eg aldrei fegra fann hjá fletum núa Hérna væri vænt ad búa.

30. Eingi gód og veidi = vøtn á vídu stræti Eggverid svo undrum sætir.

31. Þegar skorad þetta hafa þundar stála Heimi í sinn þeir halda skála.

32. Framm um skóginn fyrdar stundum fjárins vitja Í værdum þennann vetur sitja.

33. Unga ljónid þad sem þussans þróttur hrjádi Aldrei sínu edli nádi.

34. Dýrinu til dauda þetta dró med kvølum Enn emman hvarf úr seggja sølum.

35. Þetta brøgnum þókti vera þrautar skadi Leita þeir um lánga stadi.

36. En þeir fundid aldrei gátu innu ljóna Vetur leid enn løndin gróna.

37. Einhvørn morgun ádur klædast álf-ar geyra Púngt á dyrnar høgg þeir heyra.

38. Hetjur spyrja hvør þar sé og hafi barid En þeir feingu ekkért svarid.

39. Kóngsson mælti ræd eg rétt í raun og veru Vinir þetta vorir eru.

40. Demas þú til dyra far hinn dáda fljóti Gódum taktu gésti móti.

41. Hann lauk upp og hnikti vid því hjørfa raptur Dýrid kénnir komid aptur.

42. Fór þad inn med føgnud toga føtin mundi Í sánginni af sjóla kundi.

43. Kémpan fór ad klæda sig og kjært nam inna Mig munt vilja fóstra finna.

44. Dørfa týr ad dyrum gékk sem dýr-id vildi Því hann hennar þánka skildi.

45. Er þar komid annad ljónid øllu meira Pá réd tala þórinn geyra.

46. Nú hefur ekki þolad þú ad þroka svona En heldur viljad vera kona.

47. Larmenn allir leita út enn ljónid mikla Brírnar tók ad bretta í hniklà.

48. Kinjar það að kvenndýrið sér klappa lætur Og lagðist þá við fyrða fætur.
49. Kóngsson honum klappar eins á kvið og tjáði: Hermill sértu að húsa rãði.
50. Kall-dýrið með koppum inn og konu gengur Feymið ei né fælið leingur.
51. Eptir henni æfði þessi alla háttu Frægðar kappar fagna máttu.
52. Síðar þegar sumar tók að sýna blóma Skógar bæði og löndin ljóma.
53. Enn þá var svo aptur til hjá álf-um stála Hart var losfin hurðin skála.
54. Dýrin stukku fyrr á fót enn freirar sverða Ygla sig og ófrín verða.
55. Dýrið blauða Demas klæði drjúg-um togar Hann sér þá að hurðu vogar.
56. Kénna mátti kominn þángað kémp-an fräa Hann sem átti hestinn gráa.
57. Fylgja honum fjórir menn á flötum vollum Fóstbræður þeim fagna öllum.
58. Færði hann nú fylkirs orfa fákinn stóra Einnig hesta aðra fjóra.
59. Gramson bað þar gisting toka garp-ar vildi Hinn kvað þetta þyggja skyldi.
60. Kémur hann með skýlaus skjöl, að skjeldúngs arfa Bændur telji best til þarfa.

61. Allann hann því eignast skyldi aud á fjöllum Sambykt var það svo af öllum.

62. Bidja þeir ad bygd þar skuli bragnar géra Og stigamanna verja vera.

63. Líkafrón réd ljúfur þakka léda greida Enn forløg kvad sig leingra leida.

64. Hinn var sem ad hesta færa hafdi alla Sveitar herra sunnan fjalla.

65. Villendíngur var sá grímur vapna teiti Altenus var hann ad heiti.

66. Saman tóku seggir rád hvar setja skyldu Bygdir þær sem bændur vildu.

67. Allir héldu bestu bygd á breidum vøllum Nordan undir flagda fjøllum.

68. Reisa kvádu bygdir best ad bænda plógji Nærri hinum háa skógji.

69. Héldu sídan heiman þessi hérød skoda Allir runnar risu boda.

70. Líta þóktust lídir betri lendur valla Føgru velli frónid kalla.

71. Þar sem var á vidar stødum vøxtur nógur Trølla heita skyldi skógur.

72. Althenus skal ýtum veita adstod mæra Øll úr bygdum faung til færa.

73. Líka bjóda bændum þángad bygd ad flytja Menn svo landid mættu nytja.

74. Althenus til bygda bjóst, en brádum aptur Kémur þángad késju raptur.

75. Fylgdi honum fjøldi úngra fljóda og rekka Allir sídi þekktu þekka.

76. Byrjud sídan bygging var á Blómavøllum Pad gékk hratt med høndum øllum.

77. Kjænn og hagur Kaffon þá er kæti hradar Forsmidur var fagurs stadar.

78. Fyrst að alla umsjón hann þar einn skal bera Þarf eg ekki þar ad vera.

## Fimtánda Ríma.

Uppbafid ad áframhaldi bendir; Líkt fer þad med ljódaspil Leifa minna eg vakna til.

2. Aldrei hefdi eg átt ad byrja kvædi Enn letinnar þad edli er Ei til neins ad voga sér.

3. Pó var ekki þad ad mínu rádi Ljód ad smída af Líkafrón Ä lagi er þvi naumast von.

4. Lesid hafdi eg Líkafróns af søgu Skútu Arna skáldmælin Skírlega sem kvedin finn.

5. Um hans Rímur ekkért mun eg bæta Samt vil telja beitir brands Med bestu skáldum Nordurlands.

6. Því var eg til þessa næsta tregur Vard þó fyrir Vinar bón Veikann minn ad hefja tón.

7. Ad mér farist Arna lángtum midur Vil eg gánga vísu ad En vinurinn svari fyrir það.

8. Heitord mín eg honum þarf ad lúka Peim má valla hæla hag Ad heingjast sjálfann Páskadag.

9. Petta er nú þó sem fyrir liggur Ef eg læt hann ekki þá Innilegann viljann sjá.

10. Púng er nokkud þessi vída saga Manna nøfn og margt sem hér Mínum skrokk til baga er.

11. Orda leinging efnarírd á stundum Vilja gjøra lísid leidt Ljóda kroptum sem er eidt.

12. Afram verd eg ei ad sidur halda Seinna frídkar sagan vor Svona hleip eg nokkur spor.

---

13. Byggíngin vard best á føgru vøllum Reisugleg og há sem høll Hellum þakin strætin øll.

14. Fóstbrædurnir fluttu í stadinn nýja Ur øllum fylsnum audinn þá Einnig sínum skála frá.

15. Aldingarda og akra létu sína Rægtir feingu og afbragds ár Enn einginn vissi tølu fjár.

16 Bændurnir úr bygdum þángad senda Saudi og kýr því sjálfir þar Syni áttu og dæturnar.

17. Sjálfir bændur sudurfjøllin nytja Smalaskála og hjardir hjá Høfdu þessum lendum á.

18. Halda menn um haustid þá til búa Og Althenur enn áformar Aptur koma ad Jólum þar.

19. Hilmirs nidur hús lét enn þá bygg=ja Stórt og vídt sem hallir há Hásæti var stalli á.

20. Þar hann hugdist halda Jóla gledi Demas setti ad sjá um, bú Sá þad vann med snild og trú.

21. Vandur Kóngsson var ad sidum manna Eins og kristnir breyta best Bætti ad manna háttum flest.

22. Sjálfur Strabo svo hefur um hann skrifad A Gudi hafi hann grundad trú Þó grein á litla vissi nú.

23. Fyrir Jólin ferdast hann til bygda Popill bædi og Kaffon knár Kvisti fylgja ljóma ár!

24. Opinian aldin nádi finna Honum sá er hrósar aud Heim til Jóla veitslu baud.

25. Nilona hans netta dóttur átti Fod=ur sinum fara med Ad føgruvelli gjæti sjed.

26. Kallinn sagdist koma mundi þángad Aptur rída hinir heim Hestar vída reina sveim.

27. Adfángadag ádur Jólin byrja Koma þar med kappafans Kall og líka dóttir hans.

28. Althenur med ærna og fríða sveina Sunnan yfir sækja fjøll Seggir koma á Blómsturvøll.

29. Veitsla hóffst þar væn og mesta gledi Þá var dans og drikkja góð Demas fyrir bordum stód.

30. Eitt hvørt kvøld sem ølid kjætti bragna Líkafrón bad hirt um hljód Hann svo framm á gólfid tród.

31. Opinions ordum til hann sneri Audnu vora þakka þér Pesða alla meig-um vér!

32. Til þín kom eg tøtra manni líkur Mér þú tókst í móti þá Mørg og veittir gjædin þá.

33. Sverdid góða seldir þá í mundu Med því hefur høndin sterk A heidum unnid furduverk.

34. Son þinn léttu sídan okkur fylgja Einnig kénndir ágjæt ráð Eræsa skal í leingd og bráð.

35. Líka enn þú létst ad bænum mín=
um Pad var mesta þægdar stod Petta
sóktir jólabod.

36. Enn þá bid eg óſk þú heyrir vora:
Ad Demas meigi nistis ná Nilonu til
konu fá.

37. Hann frá mér ad heiman fylgju
taki Føgru velli féd og bú Og faungin øll
er brúkum nú.

38. Gulli, silfri og gripum okkar vina
Skal vor milli skipta þá Skilsmunur ei
verdi á.

39. Ef vid hinir híngad kynnum vitja
Ætíd frjálst þá eigum vér Allan beina ad
þiggja hér.

40. Demas hef eg djarfan reint í strídi
Kurteis hann og klókur er Kann ad stjórna
búi hér.

41. Vil eg nú þú vinur svar á móti
Géfir oss um greinir þær Svo gledjast
allir meigum vær.

42. Kallinn mælti og kampinn fór ad
strjúka: Bædi sje eg børnin mín Bindast
nú vid forløg þín.

43. Petta allt eg þóktist fyrir vita Prí
var eg í fyrstu fár Fjølner vidur glóda
ár.

44. Þó skal ekki þig á slíku draga Giptist þau og gángi best Séf eg leisi höndum fest.

45. Þurfti ekki um þetta meir ad tala Stála týr fékk stúlkunnar Stofu brúdkaup haldid var.

46. Demas þá sem dável þókti gánga Med kjæru sinni kom á bekk En Kaffon fyrir bordum gékk.

47. Veitsla þessi viku stód med prýdi Eingum þókti æsin laung Aerin vóru skála faung.

48. (Eg vil þó med eydi mínum sanna Ad eg ei fékk í kvæda kaup Kvalar lítid pínu staup.

49. Brúdkaupsvísur blómlegar og lángar Skyldi eg hafa skapad þá Skrattinn þad nú géra má).

50. Kaffon þá í kollhrídonum staupa Leingir mál vid Líkafrón Láttu eitt ad vorri bón.

51. Hljóttu sjálfur helmíng vorra maura Hæfir þad sem hvör einn sjer Hilmirs aptur burinn tér.

52. Ei hef haldid öllu vel til skila Sjálfur veit eg síst af því Sjódi mínum hvad er í.

53. Manikur þann mér í heidur. seldi
Þó öðrum gjöra eigi skil Enn, þá mér
hann heyrir til.

54. Segir hann nú satt af þeirra tali
Leisti til þar leinist gjald Utid finnur rúna-
spjald.

55. Segir þar hvar silfur og gull í
jörðu Fyrna mikið fólgið er Furdar hvorn
er þetta sjer.

56. Opinian orðin fór að laga Manil-
ur hinn mesti var Maður ráns og hern-
aðar.

57. Á hólmi lét hann hniga marga
Kappa Allar þeirra eigur tók Auðlegð sína
þannig jók.

58. Hertogann af Húnalandi seldi Á
fjöllin hingað flýði þá Með fullar klyfjar
grana á.

59. Opt til Húna innhlaup síðan gérði
Vinur þú ert víst eg sé Velkominn að
þessu fé.

60. Veitslan þraut og vínir allir skilja
Á Fögruvöllum feingu rann Fóstbræðurnir
vetur þann.

61. Að vori sókti vísirs niður gjaldið
Að Fögruvöllum færði heim Fyrna mikið
sýndist þeim.

62. Í hvíti einu hríng þeir mikin finna Líkafrón á hendi hann Hafa alla daga vann.

63. Skjøld og sverd med skjæra gulli búinn Finna menn enn Kaffon kjær. Köngs af nidja þíngin fær.

64. Þeir ad vori þrír til ferda snúa Døglings son vid Demas tér Dável bid eg unir þér.

65. Ef vid náum ekki híngad vilja Fresti þriggja ára á Eigda gull og. fíngra snjá.

66. Blauda ljónid bída. skyldi heima Af því þad med úngum var Ekki fært til reisunnar.

67. Kalldýrid sér kappar láta fylgja Demas kvedja dreingir þá Draga. sídan leidir á.

68. Kappar rída ad kveldi framm á skóga Þarna bída þá um nótt Þeigi kvída sofa rótt.

69. Ad morgni þegar menn af blundi vakna Kinja þikir koppum á Kalldýrid er horfid þá.

70. Kaffon segir kalldýrid eg meina Í myrkri farid mun á sveim Makann til ad sælja heim.

71. Svo mun vera sjóla mælti niður Um það tala ekki meir Áframm halda leiðir þeir.

72. Litill er eg lángferðanna vinur Heima því í þetta sinn Þundar situr fuglinn minn.

## Sextánda Ríma.

Höfuð dosinn hamlar mér Hagir á reiki snúast Nú við lofi ekki er Íslendínga að búast.

2. Ef mér vildi auðnast frá Enu að góla snótum Feiginn skyldi eg skriða þá Að skrúða sóla fótum.

3. Þessa enn eg minnast má Mig þó ellin bugi Brjóstum kvenna bjó eg á Bálaði þeirra hugi.

4. Þegar glæða áar eik Unun veitti holdi Blóð í æðum brá á leik Svo brjóstið valla þoldi.

5. Þegar hjá eg vísum var Velkominn að bekki Hvört eg þá í veröld var Vitað gat eg ekki.

6. Kollum það hið kjærsta lán Í kjöltu dylla sprundum Þótt að maður mæðu án Með þeim sé ei stundum.

7. Þótt eg líða mætti af mær Megnann

kvída ódum Eg skal nída aldrei þar Enn einatt prýda í ljódum.

8. Eg þótt reyníst óuítt grey Enn ad hátta smídi Kallar, sveinar, konur, mey Kvædum bid eg hlýdi.

9. Fordum snót og fródir menn Fsiudu mínar kvidur Þess eg njóta þyrsti enn Þó nú tækist midur.

10. Alit hvad sem yrkid sær Af þeim vitru seggjum Blessadar vid brúdar tær Brag sextánda leggjum.

---

11. A þeim tíma er um eg kved Andar sýndust grøndin Heidnir svíma og heimsku med Héldust Nordurløndin.

12. Pílagrímar hér og hvar Ur heimi sunnan slúnir J dølum híma duldir þar Dýrstu trúnni búnir.

13. Pars um frónin fara enn Fúsir mest á spektir Líkafrón og fylgdarmenn Frægdir vóru og þektir.

14. Køppum þjódin baud í brád Bygdir sínar drýgja Pad hid góda Pýdska lád Pá hét Teutonía.

15. Deigi furdu føgrum á Fjalla nærri teigi Kóngsson spurdi Kaffon þá: Kanntu nokkra veigi?

16. Hvørt nú fara hugnast þér? himr brá aptur svørum Min sem snarast ófkin er Ad til strandar førum.

17. Vér Garnheitum gétum með Snæfsar fréttir sækja Svoddan teitum semja réð Siðskéggonum mækja.

18. Ad Hvinflóði halda þá Høkla tyrar brúna Með fossa hljóðum falla sjá Fljót um ekrur túna.

19. Austan meigin áar þá Alfar líta branda Fjølners meyar faðmi á Fagra bygging standa.

20. Þar að hyggur hugar rór Hilmirs frægur møgur Ei var bygging ærið stór Enn ásjáleg og føgur.

21. Ráðgast frægir þar um þá Þýngslaborvar grana Hvørt til bæar halda á Ad hitta dalbúana.

22. Brádt um slóðir beinviðar Bragnar gaungu herða Kémur hljóð úr hornum þar Heyra gautar sverða.

23. Tvo þar krakka kappar sjá Keyra saudi feita Vaskir flakka hángað þá Þursa frétta leita.

24. Børnin hljóða og herða spor Helst

var þad til ráda Theos*) gódi! Theos vor! Taktu oss til náda!

25. Kóngsson blídur ad þeim er Yngfrú leitar frétta Börnin þýdu þornaver Puldu allt af létta.

26. Grana þúnga asfkinn á Undrar mest ad hlýda Grisska níngu talar þá Tignar barnid frída.

27. Hann nam frétta: heima þar Hvörsu margir búa? Börnin slétta fögur svar Fátt er oss til hjúa.

28. Fadir og módir finnast þar Og fjögur börnin líka Aptur bjóda svo réd svar Svidur grana slíka.

29. Mun oss nádugt nætur stad Njótur veita klæda? Ekki kodnust þau um þad Pegninn meiga fræda.

30. Gaf þá kappinn hverju hring A hönd þeim dregur mjúka Nú med happa þeigin þing Pau til bæar strjúka.

31. Ekki finna saudum þá Sér til bæar flýja Hyrdir linna heimleid á Hóar fénu hvíta.

---

*) Theos er Grisska og þýdir hann einasta sanna Gud.

32. Hetjan sjer ad halir tveir Hafa net vid ána Fiska eru ad fánga þeir Flóa týrar máua.

33. Meidar spánga sáu svo Sóma tamir vanda Frá bænum gánga týra tvo Tjarnar eldi branda.

34. Heilsa gladir þessir þá Peim og Grisku tala Heiti bad þeir hermi frá Hlinur orma dala.

35. Irna eldri jálkur las Jason mitt er heiti Nefnum heldur Aeneas Yngri fleina beitir.

36. Kóngsson úngur þuldi þá Þú munt ei eg skrafa Griska túngu numid ná A Nordurløndum hafa.

37. Hinn þá seigir sýnist mér Seims á stórum gréri Þú munt eigi alla hér Æfi hafa verid.

38. Þiggid gisting þér oss hjá Pundar góma fjalla I bæin lista bóndinn þá Bragna leidir alla.

39. Bestu rétti og beina fá Bragnar vid sem undu Bóndinn frétti fyrdar þá Ferdast hvørt þeir mundu.

40. Sólar boda baldur fer Bónda svør ad veita: Heiminn skoda viljum vér Viskóms þannig leita.

41. Muntu alinn madur hér Mækja svarar forni Par um tala viljum vér Vaknadir ad morgni.

42. Sángur mjúkar fyrdar fá Fögrum klædum búna Burtu strjúka fedgar frá Fóstbrædrunum núna.

43. Stundu sídar sjáar þá Sólar vænir liunar Mundu hlýda háann á Hljóm í bænum innar.

44. Kóngsson bidur Kaffon snar Kasti sér á fætur Ad því snidugt um hvad var Allar veiti gjætur.

45. Sá fór inn og sídan brátt Sángur vitjar aptur Eblir svinnur orda mátt Orma sitja raptur.

46. Bónda og slínga bedju eg sá Börnum med ópverum Bréf þau sýngja einhvör á Allt med höfdum berum.

47. Flutti bestur bóndi á bók Ad bord: allir sitja Kóngsson hrestur hjalid jók Hvad mun slíkt til nytja.

48. Pad ei meta meigum vid Mál réd hinn svo bera Peirra gét eg greindann sid Guda dýrkun vera.

49. Svo mun vera kátur kvad Kvistur nodru eyra Meigum vér á morgun þad Máské aptur heyra.

50. Frá þeim mønnum svo er sagt Sidi hasi slíka Er Gudi sønnum gésa akt Og gøfgan sína ríka.

51. Hér eg vildi feiginn fá Frædi slík ad læra Gudi skyldi þessum þá Þjónkan veita kjæra.

52. Ad morgni heyra sama saung Sjálfur þá nam hlída Branda freir og fólst vid gaung Frædin heyrdi lída.

53. Bóndinn sídan bragná fann Beggja kvedjur hlína Leidir vída hølda hann Um hús og garda sína.

54. Allt var prídis listilegt Ljóminn akra gljáñi Slíkt ei vída þóktust þekt Þegnar hafa á lódi.

55. Jtar svara undir klett Einn nam bóndinn leida Velkur þar og bord er sett Búid allt til greida.

56. Sæti halir svinnir fá Sólar móti ljósi Yfir dalinn allann sjá Yndis gjæddann hrósi.

57. Bóndinn meta bidur þad Brá nú Kóngson ordum Sælli og betri sama stad Sá eg aldrei fordum.

58. Audnu sætt hér eblid bír Yndid bættist meira Þína ætt og æfintír Ef eg mætti heyra.

59. Beitast líst skal þessi þér Þulu hinn réd laga Samt ef fyrst þú segir mér Sögu þinna daga.

60. Kongson flytur fréttir nú Fús ad þessu svari Allt hvad vitum eg og þú Elsk-adi lesari!

61. Alla frída æsi vann Inna halnum ríka Þar vid sídan þagnar hann Þad géri eg líka.

## Svitjánda Ríma.

Þenna nídast aptur á Eg ad mínum vana fer Liuda hlídi liljur smá Til ljóda messu hringjum vér.

2. Ef ad sólin hadda hlí Hlída vill á þetta lag Kjafta stólinn stíga í Stefnt mér verdur enn í dag.

3. Tídt eg sendi sætu og rekk Sagnir þess-um stóli frá Tilheyrenda fjølda fekk Fleiri enn kjæmist tala á.

4. Predikanir mínar má Máske brúka hundr-ad ár Kalla eg vana kominn á Ad kappar mínar þilji skrár.

5. Eg til príbis prentadar Postillurnar sendi þjód Meidma hlidir mentadar Mála tídum skoda í sjód.

6. Hér af þá med sanni sjést Sem eg fáa

reingja veit Ad eg má vid medal prest Mín framtelja geistlegheit.

7. Hann um stund eg stutta finn Stsku granna frædi ber Ara hundrud hättinn minn Heyra manna þúsunder.

8. Virid mér þó gjæfist grunt Sét eg bædi heyrt og sjed Stúndum vera þikir þunt Pad sem prestar fara med.

9. Þeir er safna mælsku ment Missjafnt brúka verda þrátt Par af jafnan þekkist tvent Pánka hátt og líka smátt.

10. Eg í stólinn stíg óspar Stefni søfnud mínum til Djáknar góli greinirnar Gód sem vita hljóda skil.

11. Þótt eg hrínga hlin og snót Hátta tídum færi blad Aldrei síng eg sjálfur hót Enn søfnudurinn gérir þad.

---

12. Fræda-gidjan frá mér strauk Fjandinn hana elta má Pegar nidji lofdúngs lauk Líffsøgunni bónda hjá.

13. Svørum hrodum bóndi brá Bjóst eg ei vid slíkum gést Pinn eg fødur þekkja má Þjód kunnugann sydra mest.

14. Middags þegar verdinn vér Vinir tékid høfum nú Søguna eg af sjálfum mér Seigja skal er beiddir þú.

15. Kjæmist vilji vor í lag Væust mé: falla mundi eitt Ad vid skiljum ekki í dag Og ykkur þad ei verdi leidt.

16. Svo ad bordi setjast þeir Sæmilega rétti vid Jason ordum midlar meir Minn eg verd ad halda síd.

17. Aptur segir sjóla ver Af sídum þínum hvørgi vilt J þínum eiginn húsum hér Hvør mun vilja banna slíkt.

18. Méd børn og kvinnu bóndinn þá Bordi fyrir las og saung Gladur hinn þar hlídir á Hvørgi þókti stundin laung.

19. Snæda sidugt fólkid ser Fylkirs arfinn bónda þá Rokkud bidur seigja sér Sannarlegum Gudi frá.

20. Viltu trúa þá á þann Pekkt nær hefur Bóndi kvad Svørum snúa vitur vann Víst eg mundi kjósa þad.

21. Øll Stórmerki helg og há Hinn framtaldi sønn og laung Bordum sterkir stódu frá Stutta eptir bæn og saung.

22. Jason tala fródur ser Fyrirheit= in enda má Eg nú skal ef óskid þér Æsi minni greina frá.

23. Seggir kræfir søgdu já Setjast und= ir klettinn þann Sína æfisøgu þá Svolátandi byrjar hann.

24. Nefnist madur Melison Mileto hann eyu réd Minn var fadir menta von Mér var best of honum léd.

25. Hættu í þar vorum vér Víkíngar úr løndum tveim Sardíníu og Sýrlender Sóktu okkur tídum heim.

26. Frá Sýrlandi sáum vér Sumar eitthvørt tíma bil Ovinnandi ógna her Eyar vorrar sigldi til.

27. Fadir minn þá flotann sá Fór ad inna svo vid her Hér ad sinni hrøkkva frá Hédins kvinnu meigum vér.

28. Festi bragnar flei vid tog Ferdbúin þau sé í nótt Lóna vagna á leini vog Leggja skulum þessa hljótt.

29. Landgáng verji ljótri drótt Lista herinn þad mun stod Uus á skerja haudri hljótt Hef eg kneri undir vod.

30. Þér skulud ey og ydur þá Alla selja þeim á hønd Enn mig seigja sliinn frá Framm á skelja djúpu lønd.

31. Þá mun saka ydar ei Aud né lífid vondur her Eg þá spakur fer á fley Fremjid kif ei leingur þér.

32. Hérnæst snéri hann á knør Hoffólk sitt og þjóna med Hvøttum vér á hafid før Hrønn og bilgja vaxa réd.

33. Frétti eg mildann fødur þá Ferda hann hvør gjøri ráð Hann kvaðst vildi øsk-um á Egyptanna sækja láð.

34. Kjósa lið af kóngi þar Kjærleik veita mundi sá Eida frið til eyunnar Aptur leita og henni ná.

35. Allvel geingur áformið Ødlíng hjá með vina skraf Æ:ið feingum ørugt lið Aptur sigldum þá á haf.

36. Eina nótt þá ærdist sjór Okkur fátt til ráða var Orga hátt úr hófi fór Hræ-svelgs máttar ginið þar.

37. Undur freyða um, flóa reit Fljótt réð eiðast værðar høfn Sun:ur skeiðir sló og sleit Slóttug reið og ærða drøfn.

38. Eg nam stýra einni skeið Ødrum rédi faðir knør Við óhýra veðra neið Varð eg einn í minni før.

39. Heila viku veðra hljóð Voktu kviku ægirs jóð Lét eg strika fley um flóð Ferð-in þikir eigi góð.

40. Kirdi hlér þá kólgu grand Kjapti læstu vindarner Komið er þá undir land Eitthvørt sem ei þektum vér.

41. Hafnir rennur óðum á Okkar breið-ur vara mar Sýrland kénna þóktumst þá Pakin skeiðnm fjaran var.

42. Því var midur þad var satt Par af jókust vandrædin Pusti lid af landi hratt Lítinn tóku knörinn minn.

43. Mig og alla mína þá Menn til hallar leida skjótt Budlúng snjall sem borgir á Virjar spjallid eigi hljótt.

44. Eg mun kénna ykkur þó Eigi skýra viljid frá Pid erud menn frá Mileto Marar dýri sjest þad á.

45. Pú ert sjóla sonur þar Sannur eda frændi hans Gunnars kjóla gjætir snar Géfdu hér um skírlegt ans.

46. Rád eg eigi annad sá Alfi sverda þá í vil Enn ad segja sánninn frá Svo á ferdum gjøra skil.

47. Til gisla hjá oss gylfi tér Geymast verdur sveinninn þú Pinn ef ái ad eynni ser Og aptur herdir rómu nú.

48. Hann skal leysa þar med þig Prá-faldlega gjalda skatt Og gjálpar eysu gjæda mig Gljúpur eg þann mála batt.

49. J vegsemd haldinn var eg þar Vøktun stránga hafdi þó Svo mér aldrei vegur var Ad víkja fánga burtu úr kró.

50. Settir vóru til þess tveir Týrar sverda ad gjæta mín Med sidi fóru fagra þeir Pó fremja verdi skyldur sín.

51. Ástir hjá eg ødrum þar Ódlast vann med greipar sand Líkur sá mér sjónar var Svo ad aldrei skyldi grand.

52. Eg á hendi hríng bar þá Hann var fríðust gérsemin Pennan rendi augum á Opt og tídum vinur minn.

53. Til svo bar ad fánga sans Flytjast á til Míleto Kom eg svari hljótt til hans Hjálp mér ljá hann vildi þó.

54. Hrínginn fríða eg honum baud Høfdum klæda skipti þá Ad sønnu kvída kvast hann naud Ef kóngur frædist slíku á.

55. Samt þar freista fer eg á Fardu á knørinn minn í stad Pig mun hreisti hermann þá Halda hvør sem giætir ad.

56. Vid félaga minn eg má Meta ráð og fá um skil Eg kvadst lagar elda þá Ospart bádum géfa til.

57. Um allt vid sídan sømdum þrír Svo ad fátt á milli bar Sú kom tíd á siglubýr Sendast áttu fángar þar.

58. Í strídsmanna flokki frár Fór eg nú, enn spyrja þeir Hví eg þannig findist fár Fór eg snúa svørum meir.

59. Eg vid píku eina skil; aptur tjádu hinir þó Taktu, líka á hrannar hil Hrínga lád ad Míletó.

60. Svo óstødir flíttum før Framm á lagar búinn hest Høfuds madur kannar knør Kallar hagad øllu best.

61. Sídann vørum vendum frá Vinda kjørinn sýndu lid Hleipir knørinn hafid á Herdir før enn vara rid.

62. Hrína bylgjur hafaldan Hædum fylgja stýris réd Kjæta sylgju vidi vann Þó vindar ylgi ránar bed.

63. Þó ad skrídi um víðann ver Voga frídu jórarner Eg vil bída og hýma hér Hátta smídi lokid er.

## Atjánda Ríma.

Sama held eg vísna vana Verøldin sem hefur beitt Þótt hann minum þannkum bana Þúsundsinnum hafi veitt.

2. Hendingar og høfudstafi Hángi eg einsog snøru vid Í tídskunni eg tolli og lafi Taungla á þeim forna sid.

3. Enn nú kémur ønnur saga Aldirnar því breita svo Undan því má einginn klaga Um ad velja kosti tvo.

4. Þad er ad brúka þánkalausa Púnga bragi og øfugt mál Fylla vitrum hljómi hausa Enn hrøra aldrei vit né sál.

5. Þessum hef eg þjónad vanda Er þuldu

rímna høfundar Tapad skálda edli og anda Af því hann svo feiminn var.

6. A mig hafa ymsir skorad Eyrun fylla rímna glaum Eg hefi ekki amiad þorad Enn ad fljóta í rímans straum.

7. Ut af því má ekki brjóta Af því svona komid er Mér ad annars hatri hóta Haudurs ísa búarner.

.8 Hitt er víst eg, sje hid sanna Svoddan gérir skáldum tjón Hárra braga hendínganna Hugar láta tína sjón.

9. O þú, skálda edla gáfa! Audnan brátt þin vitjar sú Ekki þarftu á reiki ad ráfa Rann-an til þin kémur nú.

10. Skáldin kasta hørdum hlekkjum Hárra braga er trubla géd Hédan af valla verøld blekkj-um Vitleysunni tómri med.

11. Hédan af margir víst þad vonum Víst eg þetta fyrir se A hvítbjarga útlátonum Um-breiting mun stædsta ské,

12. Verdur megin manna dómur, Mig þó kalli hédan tíd, Sá ad eigi huglaus hljómur Hugnist framar vorum lýd.

---

13. Jason fræddi fyrda káa Ferdum meira sínum á Sem óhræddir hestinn rda Høld-ar keyra um djúpa lá.

14. Á kneri var, svo kvað hinn fróði, kvendi eitt með faungum þar Harma bar af megnum móði Mikið þreitt og grátin var.

15. Eina nótt þá allir blunda En auðar gnáin harmar smá Bað eg grottu gérði punda Grimmri þrá mér skíra frá.

16. Kvað hún hæða Herrann eina Hjartans vita særíngar Sem í mæðu reifum reyna Rænu slitin mætti þar.

17. Fursta jóð kvaðst frúin vera Frá Jórsalalöndonum Hugar móð þó mætti bera Mest í kvala böndonum.

18. Rænd var þaðan sljóðið fríða Foreldrarnir þáðu deyð Flestann skaða fékk að líða Fengust varnir síst í neyð.

19. Sagði ég henni hvør eg væri Og hefði mæðu liðið stund Lofaði senn þá feingist færi Að frelsa bæði mig og sprund.

20. Þessu báðum leitst að leyna Linda slóðin huggast þó Kvaðst eg ráð ótregur treyna Svo trigga og góða findum ró.

21. Að því gjættu álma þórar Aptur þegar nóttu brá Tveir oss mættu marar jórar Miðja veigi hafi á.

22. Frá Míletó farmenn vóru Ferðum sinna kaupskapar Þessir géta frétta fóru Faðir minn sé kominn þar.

23. Hefur endur eyna tekid Eirdar vart sá tíma gaf Og Sýrlenda alla rekid Ofan í svarta heljar kaf.

24. Nekkar annad rád ei finna Enn reisu snúa aptur heim Eg sem fann til meina minna Mátti nú samt fylgja þeim.

25. Vindar báru brátt til hafna Blakkinn dúka okkar þann Harmur sár réd dróðar dafna Dauda sjúk hún gérast vann.

26. Allir þar sem ódast skunda Upp á land med fréttirnar Eptir var eg einn og stunda Atti banda tródu þar.

27. Brann þá trega í brjósti eldur Beltid steina grundu hjá Sjálfur eg í hjarta heldur Huggun neina ei átti þá.

28. Frétti eg sprund hvurt henui hér Hurast mætti ekkért rád Andar grundin aptur tér Ad oss hætta sækir brád.

29. Treistist þú fyrst nótt er nú Náhvals rádast einn á hil Víst eg trúi ad vogun sú Verdi bádum heilla til.

30. Settu trú og traust á þann Er tilbjó löndin, himin, sjá Vittu ní þín heit vid hann, Helst úr vöndu rædur sá.

31. Skýrdi frúin mæta mér Í mörgum greinum herrans rád Vaktist trúin hjartad hér Hræddist meinin síst í brád.

32. Í stafninn rann eg fljóði frá Um frelsi þennan Guddóm bað Seglum vann að sveifla af rá Senda nennir knør á haf.

33. Beint af landi birinn stóð Byrgði nóttin manna sjón Smáfreiðandi øldur óð Alkan þóttu hafs á lón.

34. Heyrir fljóð á skipi skrið Skjótt sér þetta greina bað Hvørt með hróður hafs á rið Hafi settan ára nað.

35. Fagnar píka og fýsast réð Fyrst að taka næring sér Mér var líka létt um geð Lítið saka þókti hér.

36. Ekkért sáum nú var nótt Nøldrudu smáu bárurnar Skéldu þá á skutinn hljótt Skipið dável áframm bar.

37. Þegar dagar gjæfan gaf Gátum vanda sloppið frá Skipið slagað hafði á haf Hvørgi grand til landa sá.

38. Hægði vind svo birinn brast Beiddi eg hæða Guð um sjá Stýrið binda fór eg fast Fýstumst bæði að sofna þá.

39. Annann daginn eptir þann Øllum meinum sýndist bægt Oss í haginn útsunnann A kom leiði blídt og hægt.

40. Kvikkfénaður á kneri var Kýrnar, sauðir, hestur með Og sérhvað eg þurfti þar Þóktu nauða lokin sjeð.

41. Dag níunda um bólmar band Bætt-
ist ángur stýttist før S'afni undan litum
land Leiðdi þángað stýrið knør.

42. Fljóta hest á fagrann vog Fékk eg
lagt við klappirnar Líka festi á landi tog
Láar spakt þar inni var.

43. Géngum við frá ýmis æð Upp á
sléttar hleynar þá Áttum bið á einni hæð
Okkur rétt í kríng að sjá.

44. Eingin bygging er að sjá Um hið
græna frjófsendið Als óhrigg til himins þá
Hjartans tænir sendum við.

45. Fyrna kletta fram við mar Fann eg
beggja hliða til Hæçust þetta høfnin var
Hrannar þángað bundum fyl.

46. Hesta síðan tókum tvo Á tíum góð-
um áttum val Bæði ríða réðumst svo Rétta
slóð í þennann dal.

47. Ungar kindur hittum hér Og hvørgi
nein til manna spor Enn þúsund yndis á-
vextir Ársins hreina prýddu vor.

48. Reisti eg bæ sem búum í Bætti hún
og sáði lóð Téð að sæ eg sókti því Svofn-
ers dún og klæðin góð.

49. Svannin mildur mína bón Meta
gjæða hótum réð Við að skyldum verða
hjón Vitund hæða Føðurs með.

50. Sprundid frída eg fastna réd Feingum blíd ad eignast jód Ár eru síðan átján téd Aldrei kvída þurftum mód.

51. Elda lækja eyan fród Alla kéndi rétta trú Helgar bækur hafdi fljód Hjálp er sendi okkur nú.

52. Eg nam slaga eina tíd Ut ad leita bygda hér Fjórtán daga um frónin, víd Fætur þreitast kynnu mér.

53. Þar eg sídast hitti hús Hvørgi snild þó virdtist á Eg þar bída als ófús Ei mig vildi láta sjá.

54. Ekki veit eg heldur hitt Hvada landi búum í Aldrei breitist áform mitt Ekki grand eg hédan sný.

55. Alla daga og øll mín spor Eiga vil i þessum dal Æfisagan endar vor Einkis dyl eg vænann hal.

56. Kóngsson mælir þøkk sé þér Ad þina frída kénndir skrá Stunda sælast met eg mér Medan hlýda fékk þar á.

57. Hugbod mitt þad hradla var Ad huldar listir fylgdu þér En vita þitt nú vil eg svar Ad vetrar gisting ljáir mér.

58. Gudinn sanna þekkja þinn Pikir ríða slórum á Þessu vann ad heita hinn Heim nú sídan geingid fá.

59. Jasons kvinna kom þá inn Klædd í skraut sem drottníng var Ekki minna húnn enn hinn Hrosta gautum fagnar þar.
60. Hjóna dóttur lærdóm las Lofdúngs fund um veturinn Nam íþróttir Æneas Um þá stund er kéndi hinn.
61. Sagt er dóttur húsins hjá Hetjan rædur leingdi frí Hneixli þókti eingum á Af því frædin kénndi ný.
62. Þegar menn og gullhríngs gná Gaman rædur leingja sér Fleyra kénna enn Frædin má Fellur kvædi úr höndum mér.

## Nítjánda Ríma.

Vidi stikla og víra slód Vek eg enn til spjalla Skothendt liklad skír og fród Skáldin braginn kalla.
2. Þægast flétta þætti mér Þegar ljódin ordast Mjúka og létta hætti hér En há:dýrdslínga fordast.
3. Þeir sem bjóda og bera frá Bragna fyrir eyru Medalhófid hér er á Hentast eins og fleyru.
4. Margt kann olla vitum vér Vandi hindrast slíkur Þeim í solli situr hér Sællrar Reykjavíkur.
5. Sá er spjöllin saunga vid Situr, ætti

að biggja Upp á fjöllum aungan sið Annara sképna þiggja.

6. Lopti heidu að lifa í Lángt frá solli þjóða Skyldi greida um skrifin ní Skáld sem vilja bjóða.

7. Ofk eg mynt í að þiggja þá Pakinn fannahökli Bárdartindi biggja á Bónda í Snæfells-jökli.

8. Hvítbjörg fornu hyggjum það Heida fjallið vera Bragar norna byggja stað Bætur mundi gera.

9. Skyldi kvæða skodast tóu Skárri þá enn hinna Par má bædi Bodun Són Og brunn ódhrærig finna.

10. Pótt að kérin ádur öll Odinn sopið, hafi Pángað berast brádum föll Blóðs úr Kvásers hafi.

11. Að honum blædi enn í dag Allir meiga trúa Prái eg gjæða þennann hag Parna fá að búa.

12. Finn eg valla mér þann mátt Mig þar upp að kveða Af því fjallið er svo hátt Sem olið geymir téða.

---

**13. Að vori níu nokkurn dag Niblúngs arfi kvidur Puldi frí með þokka hag Pann-ig bónda vidur.**

14. Þessu sfrafa skást er frá Skyldi eg morgu sinni Að Kasson hafi áslit á Eldri dóttur þinni.

15. Byggja snarast bú þér hjá Bædi hygg eg vilja Hverju svara þú vilt þá Pikir mest um skilja.

16. Ef hann verdur heima hér Hugar-inn líka þrá Ala skérdir eyma mér Ætter-að þú sjáir.

17. Eg vil fara og finna menn Fleyri hér á löndum Jason svara sinnir enn Svoddan greinum vöndum.

18. Vel skal taka vænum hal Og vingan hvörgi stiggja Garpnum spaka í grænum dal Gott mun þikja að byggja.

19. Kjæra grund þá kém eg á Kémpan svar nam bjóða Fjölga mundi fremur þá Fólk í dalnum góða.

20. Hér að gjætti hetjan neit Og heima bóndinn valinn Heila mætti setja sveit Seinna þar í dalinn.

21. Saman kémur þeim um það Þetta ráðum binda Brúdkaup semur beimum að Brádum skuli mynda.

22. Urdu þetta allra ráð Astar bönd-in herða Fíngra netta fjalla láð Festi bald-ur sverða.

23. Líkafrón þá væraſt var Vedur ſnýr til ferda Og med honum æru ſnar Aeneas nam verda.

24. Popill brauda ſjádum freyr Fékk og brautar geingi Nú med landi nádu þeir Nordur ferdaſt leingi.

25. Seima týrar ſjá eitt ſljót Sextánda á beigi Þángad ſtýra fráum fót Fært þad ſýniſt eigi.

26. Djúp og breid var undra á Frá auſtri rann í veſtur Vad á leid ei fundid fá Sem færi nokkur heſtur.

27. Hinumeigin haga á Hús þeir ſjá og ſtadi Drýgja veigi daga þrjá Ad djúpsins leita vadi.

28. Upptøk ſinna vilja víſt A vegum leita øllum En hvørgi minna í hyljum brýſt Hrønnin undan fjøllum.

29. Finna brádum adra á J er komid vanda Strauma badar bladrad fá Beina leid til ſtranda.

30. Hinumeigin høldar ſjá Hyrti, ljón og byrni Vatnsins meigin ølbum á Allra ſjón þó fyrni.

31. Kviſtir ſnúa korda frá Komiſt ekkért géta Aptur nú med nordur á Nidur máttu feta.

32. Mjóst þar vera mundi á Mildíngs arfinn seigir Sýnist mér ad sundi á Sækjast fljótid meigi.

33. Grána reyna mætti minn Mælti Jasons nidur Helst eg meina hættu finn Hest ad leggja á ydur.

34. Sikling greinir: sjálfur vann Seigja er hestinn átti Mílu eina og hálfa hann Hafa á sundi mátti.

35. Hérna bída hljótid þér Hitt skal reyna betur Einn eg rída á fljótid fer Farist þad sem getur.

36. Sídan jór á sundid bró Sjáfar gjætir loga Esfsid stóra ad undrum fló Yr sem rynni af boga.

37. Yfir fljótid ódum nær A réd landid troda Runnur spjóta fródur fær J fjøru báta ad skoda.

38. Klárnum góda brá á beit Best ad øllu gádi Ygninn fródi þá og leit Þar stód bær á ládi.

39. Þángad hradar, hurdu slær, Halur frægdar kénndi Ut kom madur furdu fær Med fleyna staung í hendi.

40. Frétta gérir framur þá: Fróns hvad nefnid reita Nú vid erum nam hann tjá Nidurlønd hvar heita.

41. Hvør er fjóli hér á jtord? Hetjan frétti dreinginn Greidir kjóla grérinn ord Gramur sé þar einginn.

42. Landid byggjast ódum er Ærid stórt má kalla Bragnar þiggja hljódir hér Herradæmi Jalla.

43. Svar nam smída þíndur þá Þorna adkomandi Hvar má rída undra á Austan-verdt úr landi.

44. Upptok mótu innir hinn Ymsir kríng-um rída Sefríng flóda svinnir sinn Sum-ir láta skrída.

45. Núna hvadan nam hann tjá Nabba komstu r.ptur Karfa vadi kvam eg frá Kóngsson gégndi aptur.

46. Sástu flotann feigir hinn Og fólg-inn víkings skora Njótur gota nei um sinn Nádi til þess svara.

47. Ekk. veit eg hót um hann, Hér um munt þú fræda Mækja beitir móti vann Máli hans od ræda.

48. Vopna gjætir fyrst á ferd Flakkar einn um stadi Pigdu nætur víst og verd Valla mun pad skadi.

49. Hví er votur hestur þinn Hefurdu ridid ána Gjørdi snotur gésturinn Greiuir svo ad lána.

50. Þar má síðar seigja frá Sendir jarðar hánga Bauga fríðir frejar þá Í fagra stofu gánga.

51. Konur valli eru á Undrast fróða svanur: Hluti alla hér að sjá Hvørgi slíkum vanur.

52. Koma á borðin vín og vist Vísirs burinn teiti Brá svo orðum sínum fyrst Fræððu mig um heiti.

53. Svarar skeyta sígar hátt Sønnu skal ei leyna Geirmund heita mig þú mátt Meiður valinn fleyna.

54. Fáheyrt kalla eg næsta nú Nafn þitt gestur tjáði Fyrða snjallra sæst um bú Fyrr svo heita náði.

55. Vala stéttar valinn grér Vann þau svør að bera Hérna þetta algeingt er Að þú lángt munt vera.

56. Hvør er flotinn frétta vann Fróna skjóra niður Þundur sprota þetta fann Þar til svára viður.

57. Saxlendíngar sækja heim Sólgnir staði vora Mikið þvínga í mækja eim Meiða ljóma fora.

58. Hálfbygt frón vill hilmir þar Herja á og taka Í skjóma tónum skilmíngar Skatna slá og blaka.

59. Hér er jall sem honum mót Hern-
um fylgir vorum Sá mun valla að von-
um hót Vinna á hildar sporum.

60. Hernum fjandi fylgir sá Fælist gjør-
vallt meingi Ovinnandi um bilgjur blá Bar-
ist hefur leingi.

61. Vísirs bródur Valdimar Vomurinn
er ófríði Kaudinn ódur aldrei bar Osigur
af strídi.

62. Honum líkir teljast tveir Trøll úr
Bjarmalandi Høldar slíka um heljar leyr
Hilda ósigrándi.

63. Minn Høfdíngi Menelaus Mildíngs
bródir hína Fælist slíka ad seni nás Fanta
hlífum búna.

64. Dóttur sinni ad hjaldri hvar Hefti
fleina þreitir Þeim er vinni Valdimar vit-
ur Jallinn heitir.

65. Kostur bestur allra er Einginn því-
lík kémur Spakur géstur spjallar hér spyrja
verd eg fremur.

66. A hvorn trúir øldin hér Ansar
bóndinn prúdur Fróns innbúa fjølbinn er
Frí vid þvílíkt slúdur.

67. Hinn kvad: veitstu um hann er réd
Heiminn skapa fordum Gjálpar neista granni
med Ségnir þessum ordum.

68. Flestir halda af sjálfu sér Soddan varið hafi Odins tjalda álfur tér Aptur hinn með skrafi.

69. Viltu frétta á hvørn eg Alla dagg trúi Sinna um þetta má ei mieg Mælti heima búi.

70. Trúðu á hvað sem þikir þér Þægt og fróðlegt vera Heimsku sladur mikið mér Mátt ei þetta bera.

71. Hetjan kjær sem hraðast þá Hætti slíku og tjáði Hvør hann væri og hvaðan frá Heim er kanna náði.

72. Sagði líka að sinnti á Og sín hvar hinir blði Eru ríkur inti þá Ogurs ljóma skíði.

73. Sækjum báðir bragna þá; Búast menn á fleigi; Fyrðar hrjáðir fagna að má Fljóts um finda veigi.

74. Hjá Geirmundi mæta dvøl Meiðar feingu klóta Um nætur stund því æti og øl Ekki mundi þrjóta.

75. Í værum hvíla klæðum sig Kvistir líar hilja Hróðrar grílan hræðir mig Hér við þá að skilja.

## Tuttugasta Ríma.

Til má reina tuttugasta að tóna braginn

Best er nú ad brúka daginn Bragnum falli þad í haginn.

2. Hvílunni eg hvarfla frá med höfud dofá Ad mér hentist einhvör vofa Í alla nóti ei fékk ad sofa.

3. Svo ad einginn óttast þurfi andleg sála Fjanda þann ei má eg mála Mansaungs heldur reglu brjála.

4. Næsta Morgun núna bar þad nýtt til mála Geirmundur med sveit forsjála Sóktur var í hrídir stála.

5. Bóndinn þá vid kóngson kémur kjærri rædu; Verid hér ad víst og fædu Vopnin medan reini skjædu.

6. Hljóti eg af hjörfa vinnu heljar grandid; Eig þú bædi bæ og landid Búskapar ef sýsist standid.

7. Gramson mælti gott er bodid gautar skída: Hvört sem nenni eg hér ad bída Hinir einatt medan strída.

8. Bóndinn reid vid bragna þrjá og blindar funa Kóngson geimdi margt í muna Mæla tók vid húsfrejuna.

9. Viltu ljá oss valinn mann um veigi torgar Heim til Jallsins höfudborgar? Hildur mælti freju sorgar.

10. Viltu einskis Bóndans boð um búið nýta. Hann ef náir helju bíta Hlorridi þá mælti ríta.

11. Hinn mun aptur hamíngjan til húsa bera Feigann hygg eg valla vera, Vænan reinir sára skéra.

12. Konan mælti kom þú hér með kappa spaka; Aptur þegar bíst til baka Børinn svarar fíngra klaka.

13. Þitt eg tek með þøkkum boð þó þetta skeiki; Víðar kann eg verða á reiki, Og vitja máské um þeirra leiki.

14. Ríða þaðann rekkar fjórir rétt svo héldi; Að borgar porti koma að kveldi Kappar príddir ránar eldi.

15. Læst var fast enn Líkafrón við larmenn tjáði: Kassonar að kjænsku og ráði Kann eg sakna nú á láði.

16. Dóttur Jalls þess dyl eg ekki dreingi nýta; surðu er mér sýsn að líta Forløg máské til þess íta.

17. Heima var mér hignum spáð af hjørfalundi Í þessum hluta heims eg mundi Hugar ástir fá af sprundi.

18. Þó ei vildi þekkjast strax af þíðu sprundi; Kasson veit, eg kunna mundi Kjænsku að sækja hennar fundi.

19. Æneas þeim orðum náði aptur svara Æskan hefur ei á sér vara Ef þú vilt þá skal eg fara.

20. Til má bera takist þér í tötra klæðum, Flestum búinn gáfna gjæðum Gérði borða ná að ræðum.

21. Reina má það ræðir frá runnur skíða, Þið skuluð mín hjá þorpi bíða Því er náðum hjá að ríða.

22. Tötrum klæðist tírinn glæðu tjarnar fljótur, Verður hræðilega ljótur Labbar svæði haltur fótur.

23. Trúss hann bar sem trosi var á torgi fundið; Hann og varann hiru sprundi Heldeg bara gédjast mundi.

24. Framm um vega fullur trega fór að staula; Portum þegar að bar aula Amátlega hann fór að gaula.

25. Hurðir ber og hnokinn gérir hátt svo væla: Dauðinn fer með húngri í hæla Hjálpið mér nú fólkið sæla!

26. Vaktarinn lét aulann inn og orð þau tjáði: Hálf nakinn og heilla smáði Hvaðan slinni ertu á láði?

27. Ekkért hæli á eg skjælir örfa grérinn, Faðir minn sæli fór í herinn Flokki þræla móti kérinn.

28. Fallinn baud í brádri naud til borg= ar fara, Finna braud med fátæks skara Fyrdtur aud svo meigi hjara.

29. Sér nú slódin féleg skjód sem flakka um stræti Pángad ódum slýtir fæti Flíka tródum þeim svo mæti.

30. Eru tættar tuskum bættar tøtra skadar Húsgángs ættar háaldradar Hvørgi þvættar nokkur stadar.

31. Bad sér greida liddan leida og lids hjá snótum, En þær reidast af þeim hót= um Ordum freyda mikid ljótum.

32. Sjer þú eigi sultur beygir sorg og elli, Oss þó meigi vaga um velli Valla dreigist gét á felli.

33. J húngurs keing vid hofum leingi hlotid feta Wdsta geingi mundum meta Ef magran feingjum hund ad jeta.

34. Førum vér svo slónid tér í fári strída, Fallsdóttur ad finna frída Fala gérum kosti þýda.

35. Pú ert ær, svo ansa þær í ædi glanna, Eingin sær ad finna svanna Og feta nær til hennar ranna.

36. Strídsmenn tveir med steikum geir þá stofu verja Okkur þeir til bana berja. Brøndúngs freyr þá mælti skerja.

37. Flest má reyna finnum hreina foldu þráda Okkar meinid mýkist bráda Mig ef einunn látid ráda.

38. Þrjá peninga eg þeigi ringa eg þarna hefi, Brúdir slingar! ei er efi Ad ykkur þingin tvø eg géfi.

39. Mín skal amma enn ønnur mamma ykkar heita; Sídan þramma þrjú um reitá Pesèum framm ad salnum leita.

40. Vardmenn beida gaung ad greida gráta og væla Enn þeir reidir aptur mæla Inn ei leidum slíka þræla.

41. Fløkkumadur kløkkur kvad eg kann ei trúa, Ad viljir skada og bøl oss búa Banna í stadinn koma frúa.

42. Pening fékk mér furstinn þekki og sinna sagdi Dóttur sína í blídu bragdi Blessadur þau rádinn lagdi.

43. Oss í naud ei bannid braud enn beitid grandi, Skal eg kauda í kvala standi Klaga daudur og lifandi.

44. Víst mun slána veiklast lán og virding búna Hvílík smán er fyrir frúna Ef fædu án vid deyum núna.

45. Heyrdi snót hvad hjálar njótur hræf-ar dúka, Hurdum fljót hún lét uppljúka Lass til bóta rædu mjúka.

46. Hvørjir erud aumir hér sem oss a ranna Viljid hér í vanda kanna Veiga grér nam svari anna.

47. Amma fín og Módir mín í megn-um kvída Inn til þín hér óska ad skrída Oss sárpínir húngrid strída.

48. Fadir svinni er farinn minn til fleina þínga Af því finnum fædn ringa Enn fadir þinn oss vísar híngad.

49. Vera kann þú seigir sann kvad sól-in lokka, Eimi hann þá upp ríd smokka Auka kann þad skárri þokka.

50. Hring einn sá hún hendi á þeim hrjáir mædi Skein á háraudt skarlats klædi Skrúda þá svo jørdin rædir.

51. Skríd þú inní skémmu minni skalt fá hæli, A gólfi slinna bý eg bæli Og bita finn ad midla þræli.

52. Fadir kjæri fyrst nú þær oss fregn-ir sendi Sú vanæra ei mig hendi Ad eingu nærir Svein og kvendi.

53. Vid sprundin kvad hún kaupid þad er kann ad sýsa, I ødrum stad sem eg til vísa Ykkur madur þar skal hýsa.

54. Vælir sódinn síst vid módur sæla skilja Medur gódum mun og vilja Mat þó bjódi klæda lilja.

55. Inn eg fer og þigg af þér hvad þarfir fýsa, Fíngra mér ef eyur ísa Aptur hér oss þángad vísa.

56. Veri þad svo vísid koad og vísa læt- ur, Kérlíngum í kosa nætur A kallmann- inum hafdi gjætur.

57. Leidir þann í lítid rann og lætur snæða, Sídan hann og sólir klæda Svefn- ina vann med skjóli gjæda.

58. Þegar allar þernur falla þar ad blundi, Dóttur Jallsins fer ad fundi Fræn- íngs valla ad finna þundi.

59. Svona tér hún sofid þér? hann sagdist vaka; Og af sér nam tøtra taka Tíin eru góð til baka.

60. Riktann kjól sem ránar sól hann raudan hafdi, Orma skjóli um ennid vafdi Ásýnd hól af fegurd krafdi.

61. Glóbjørt hár um herda krár sér hrokkid velti, Af silfri kláru bar hann belti Blossa lár þad frá sér helti.

62. Kvédur fljódid fleyna rjód og frétti ad heiti; Svørin sód og sønn hann veitir Silki-tródan máli beitir.

63. Módur þinni meina eg kynni mjøg ad leidast Fyrst hér inn þú fórst ad skreid- ast Flytur hinn þá málid greidast.

64. Sú má bíða og bera kvíða, blessuð kona! Flýkka gríður vil eg vona Vænta um hríð því mundi sona.

65. Það er vandi þegar fjandinn þorir slíta, Tryggðaband og ástir ita Öteljandi meinum flýta.

## Tuttugasta og fyrsta Ríma.

Kvæðin fæðast ættu enn, Aldrei géfst mér friður; Lasti kasta munu menn Mjøg á þessar kviður.

2. Kalla allir sagna saung Seint og ílla gánga Dró eg þó hin fremstu saung Fram við søgu lánga.

3. Likt og ikt var áður hér, Apturgaungur viður Skrána sána skulum vér Skálda loxins niður.

4. Hana reyna að heitast við Hef eg því í ráði Sjáið á þeim orðum þið Af er dreiginn kláði.

5. Skal eg talið óðar ei Optar minda af søgum Friðust blíð þó brost mey Með bestu sadmaløgum.

6. Sveittur þreytti eg saungva kver Sídan úngur dreingur Einginn streingur hátta hér Haldid gétur leingur.

7. Atti eg þrátt í verøld vid Ad vefjast tvenna flekka Annar vann mér indælt lid Annar svifti þokka.

8. Avallt má eg súrt og sætt Súpa heims af skálum Stundum fandist hefur hætt I hatørs ljótum málum.

9. Fjandar standa opt mér á, Offóknirnar glæda Vinir hinir þægri þá Pánka sárin græda.

10. Gladur hvad sem gjálpar á Géng eg jardar tradir Gédid rédi létt ad ljá Lifsins gódi Fadir.

11. Saung eg laungum mínum med Mirdri þánka hljódu Fjandans anda eg frá mér kved Eu flý til hinna gódu.

12. Hvad sem skada eikur enn Einkis þánk-inn metur Pad skal vada á súdum senn Svo sem best ad gétur.

13. Leingir dreingur visid vid Vina

rædu kjæra Kvedju réd frá niflúngs níd Nista jørdu færa.

14. Skýrir dýrum frægdum frá Og fegurd hans ei minna Og ád voga vildi sá Valdimar ad finna.

15. Ef ad géfur ástar heit Audar tróka honum Svarar snarast sætan teit Svoddan fer ad vonum.

16. Føðurs glød eg ræki ráð Rétt sem forløg hlaupa Dýrast víra veit eg láð Verdur hetjan kaupa.

17. Svanninn hann nú kvedur kjært Kominn hálf er gríma A bedi rédi blunda værf Brúdur prúd um tíma.

18. Vid óp og hróp úr einum krók Allar meyar vakna Pegar tregann hitta hrók Hann kvadst mømmu sakna.

19. Tøtra føtum aptur í Er nú þver og grátinn Veldur falda vesjan því Vaktarinn inn er látinn.

20. Bad sem hradast brúdur þann Ur borg ad draga fóla Vill oss spilla værdum hann Vitlaus hreint ad góla.

21. Vaktú rikt ad aldrei inn Optar fái

að skreiðast Enn ei má dreiginn aumínginn Af yðar voldum meiðast.

22. Streitast leitast vann hann við Veinar hátt um móður Reka frekir hann um hlíð Hér varð kallinn góður.

23. Klæða skræðum fleigði fljótt, félagana blíða Finnur hann og fréttir skjótt Fyrðum náði þýða.

24. Vel eg tel svo Kóngsson kvað Kappann únga duga Drustu þora stefna á stað Strax mér býr í huga.

25. Sjá eg má þann Saxa her Og sóknir beggja flokka Fróir þá um fíla ver Fáka láta brokka.

26. Herbúðir í tæka tíð Tírar finna axa Byrjað stirjar hafa hríð Hérads menn við Saxa.

27. Fara þar á háa hæð Hinir aðkomandi Sjá þar má hvar sveitinn skjæð Sundrast fyrir brandi.

28. Undir stundi og yðar jörð Undra fundi seggja Drundi í mundum herbrá hörð Hundrud sundrast beggja.

29. Lítur nítur Líkafrón Landsmenn buga síður Byrjar stirjar tamur tón Tjørgu reinir fríður.

30. Far sem snarast Æneas Ef þér vinur tæki Fréttu rétt um fleina þras Fyrdum hvørnig sækist.

31. Fer nú verinn álma einn Aptur sig torkénnir Að búdum snúdugt sendisveinn Síðan feta nennir.

32. Kokka nokkra hitti hann A hlóðum sjóða slátur Að potti hrottinn vasa vann Valeigður og kátur.

33. Framur nam um katla krás Kepp=ast þeirra vita Mér svo tér hann heldur hás Hjálpið þið um bita.

34. Kéti ef gétið kjœtið þér Kallson einn af landi Kokkur þokka feigur sver Svei þér þrásníkjandi.

35. Két að jeta viljum vér Valdimar þér gési Pannig glanninn þilja fer Par á mun nú esi.

36. Hvað mun líða um stofnað stríð Ste kar njótar svara Illa hallast lands á líð Leikur óðins skara.

37. Jallinn fallinn fángi er Fylkirs líka kundur Snéru vér þá snídugt hér Snautar burt, sem hundur.

38. Finnur svinna hlíra hann Hólnum á sem bída Juna vinnur allann sann Ord réd kóngson þída.

39. Demas sem um refa reit. Rakka geimir vora Vildi eg skildi og valin sveit Veigi híngad spora.

40. Fá ei má þann mann er vér Mætt-um þángad senda Frúann þá er flýtti sér Fyrir Rómu enda.

41. Fylgdar gildur halur hans. Hér til gérir svara Eg um vega lánga lands Leid mun greidast fara.

42. A Midjum þridja deigi djarft Demas skal hér verda. Frekt: óþekktann séril snart Feikna reid má herda.

43. Sæl, ummæli séu þín Sonur kóngs réd glósa Féd hann lédi úr sjódi sín Svo sem hinn vill kjósa.

44. Reid á leid med hrada hann Hesta reinist kraptur (Knáann tjái eg. kallinn þann Komi hann brádum aptur).

45. Ver nú verinn sjóla svar Svo við kempur prúðar Gerum vér til Geirmundar Gánga allir búðar.

46. Rekkar þekkir ratað fá Réttar brautir þángað Viðja viður veiga sá Vildi úr tjaldi gánga.

47. Menn sem kénni þegninn þrír Þá hann vilji finna Eidir skeiða út þá snír Allir kveðjum sinna.

48. Fréttir rétt að síngi sá Son bað konúngs fjáður Sannast hann réð seigja frá Svo sem heyrðum áður.

49. Hvað nú að vilt hafast þú Hetjan spurði fríða? Hinn réð inna héðan nú Heim vér meigum ríða.

50. Vill af øllum okkur hér Eingin meingi stýra Svørin borinn tiggja tér Í trygð eg kalla ríra.

51. Þannig hann sem herra er Í hendur fjanda selja Reynið fleina fremur þér Faðmi kauða helja.

52. Geirmunds heyra garpar svør Gjarnan skal eg stríða Þú ef nú að fleina før Flokki stýrir líða.

53. Hinn réd inna ei um þad Attu mig ad bidja Pér sem ber; enn eitthvad ad Eg mun vilja stydja.

54. Vera um herinn bod þau má Ad budlúngs dóttir slínga Pig í vígurs voda frá Velji lidsforíngja.

55. Petta rétt þeir rækja fá Ráb og bodin géra Kalla allir þegnar þá Petta meigi vera.

56. Búa nú um nóttu lid Nítír brjótar sverda Fyrir á stirjar meina mid Ad morgni higgja ad verda.

57. Geirmund keira vill um vøll Valdimars ad lidi Par sem vara víga skøll A votu dreira midi.

58. Pegar dregur dimma nátt Dagsins ljós frá høldum Rása og blása hornum hátt Hinir þeirra ad tjøldum.

59. Valla kallar Valdimar Vit í þeirra skara Sem voga ad toga á vøllum þar Verju herjans snara.

60. Feigur geiglaust Geirmundur Geingur spjóts til hrídar Fimm í rimmu fær nú hvur Fyrda hans á strída.

61. Takid nakin sverdin senn Sendum þá til heljar Hans af fansi øllum enn Dr-uſlu lúdur beljar.

62. Lidi snidugt fylkja fá Fyrdar blóds á mari Geirmunds keira þegnar þá Þeim ad Valdimari.

63. Bródur ódur álms í þras Adra fylking hefur Móti þrjóti Æneas Hld ad strídi krefur.

64. Múg á vígann Valdimar Vann sá fylking stýra Popill glópi þessum þar Pundar kindir sýra.

65. Þannig vann ad fylkja um frón Fólk ad rómu ærri Lítid nítur Líkafrón létst þar koma nærri.

66. Vondur undrast Valdimar Þá virda litur fróma Hverjir sér óþekktir þar Þúng-ann reidi skjóma.

67. Svædid klædir fólginn her Sóknar feiknir byrjar Hrædast ædi fælinn fer Frán-ar dunur stirjar.

# Tuttugasta og önnur Ríma.

Dýsir fordum ljóda leik Léttan slétta máttu Skémta þordu. skrúda eik Skáld í ordum hvergi smeik.

2. Póktu undir lifna þá Ljósu ósa tródum Sjálfur stundum satt ad tjá Saung eg undir hætti smá.

3. Hvört ad fjöllin saunga seim Sömdu og glumdu hljódum Eda tröllin inn í þeim Æsdu sköllin hljódum tveim.

4. Pad eg vita þeigi má Petta rétt eg skyldi Fjöllin titra. seingu þá Fræda ad sitja streingjum hjá.

5 O ad kynni eg í dag Aptur krapta geinginn Skordum. tvinna. helst í hag, Hátta spinna fjörugt lag.

6. Dýsi sjálfar dugid mér Dád sem ádurgéfid Tröll og álfar tónid þér Týrs. med bjálfa drunum hér.

7. Hvörju er anda hræra má Hér á veri. storma Leikinn branda eg bid ad sjá Blód freidandi völlum á.

8. Vertu Helja vid í dag Veidi greidist

brádum Þér sem velja vilt í hag Vopn þar belja ramma slag.

---

9. Hildur lauk upp hvopti þar Hamadist saman lýdur Sóknin aukin ódum var Eldur rauk um hlýfarnar.

10. Idadi fljódid audunar Undir fundi seggja Orga og hljóda eggjárnar Eldu blódi steinur þar.

11. Likafrón var hjá á hæd Horfdi á korda glimur Ei vill þjóna ad eggja sæd Unda ljón þó trillist skjæd.

12. Hér skal tjá af Æneas Otar votumbrandi Einatt háir eggja þras Imsá þjáir heljar flas.

13. Inni midja fylking fer Fylgdu snildar dreingir Gaung þeir ridja grimmir sér Gríma bridja skjómarner.

14. Soxa frøkku hirjar her Hika þikja vindar Pesßum hrøkkva fyrir fer Fleynadokkur birinn er.

15. Valla fríður Valdi sá Vóðins glóða leikinn Til hann ríður reiður þá Renna bíður hvørgi frá.

16. Risinn hái fylkíng fer Fljótt með þrótti rétta Æneas þá svo innir vér Ekki tjáir flýum hér.

17. Standi knáar kémpur enn Klóta mót þó harðni Vona eg hái vomurinn Vinna fái annað senn.

18. Lítur þetta Líkafrón Léttan sprett á grána Keirir þéttur þá um frón Þar af sprettur manna tjón.

19. Framm í Valda fylkíng óð Fleyngir dreingi niður Týnist skjalda børfum blóð Vifast alda føðurs jóð.

20. Fyrir herinn hrøkkva má Hamaðist grímur sverða Geirmund ber og benja ljá Bráðum snéri að merki sá.

21. Lagði að velli merkismann Miðjúngs friðar vinur Málmur gélla í mundum vann Merkið féll og líka hann.

22. Vann að undrast Valdi það Vøllurinn allur riðlast Þángað skundar þá með hrað Þúngum fundi skjóma að.

23. Verdur ódur Valdi hreint Veifar leifum dáins Manna blóöid lak óleynt Ljótur vód um herinn beint.

24. Pópill gildi og Geirmundur Gramson ramur líka Sókti hildi hetjan hvør Hvørgi skildu enn beittu dør.

25. Um Æneas vænann vitja fer Verinn kérin skjóma Nídur spænir allt hvad er Andláts bænum gleymdi her.

26. Mágur Valda og Æneas Eggjum leggja saman Akaft halda eggja þras A var skjalda týrum fas.

27. Æneas klýfur efsid léd Illum spillir h'ýfa Sundur rísur manninn med Megn og lífid tínast réd.

28. Líkafrón med høggin hørd Herinn gérir kvista Svo sem ljón í sauda hjørd Sveiflar dónum vals á jørd.

29. Fylkíng hrekja flótta á Fjádir bádir þessa Hetjur frekar hinni ná Haudur þekja daudum ná.

30. Popill elta Valda vann Vjek ad baki kauda Sundur skélt fær hestinn hann Og helju selt á velli þann.

31. Leit ódreigur Valdi við Vann svo hann að mæla: Þú skalt eiga erindið Aukinn feigur vals á mið.

32. Ekki nægja orðin hér Ein svo greinir hetja Kjaptar lagið þú af þér: Þetta ægir valla mér.

33. Popill snar sem elding ör Egg að seggnum lagði, A lærið snarast harður hjör Hita marar særist bör.

34. Launa vildi Valdi fár Vegur þegar næsti Hinn með skildi, hlýfðist frár Harkið trilda leingi stár.

35. Líkafrón það líta má Leið hann reið til bragna Varð sem ljónið Valdi þá Vafurs lóna týr að sjá.

36. Popil hann með hnefa slær Hart og snart á vánga Afbragð manna aungvit fær Undan glenni klárinn slær.

37. Dymman nætur dettur á Drunur hrína sverða Kóngsson mæti ei mátti ná Marar glætu draugi þá.

38. Ríða undan Valdi vann Vollin fúllan blóði Að Geirmundi hvatar hann Hans er sundra fylking vann.

39. Lá við ótta fylkíng hans Freyrinn geira kallar Keirið ótta enn í stans Æsið þróttinn brinþvarans.

40. Geirmund sækið einum að. Allir kallmannlega Saxar rækja ráðið það Reyna sprækir korða blað.

41. Popill þá og Kóngsson kjær Koma að somu glímu Liðið slá sem ljónin ær Laufinn blái á skjøldum hlær.

42. Geirmund Saxar fángað fá Fjøtrast øtul he'ja: Viðir axa og Valdi þá Viku strax í tjøldin há.

43. Valdi undi illa við Alma sálma skaða Sækja mundi meira lið A mari sunda í branda klið.

44. Hundruð þrjú hann hafði manns Hjør sem borið gátu. Um sárin búa linna lands Lundar nú í tjøldum hans.

45. Líka hundruð þegna þrjú Þángað strángur heimti A maskra hundum sveitin sú Sigurundruð dvaldi nú.

46. Geirmund Jalli gildann hjá Geyma heiman fánginn: Varðmenn allir um það sjá Ekkért spjallað saman fá.

47. Líkafrón að morgni menn Mála til svo kvaddi Hvört á fróni sýnist senn Saxa tón að reyna enn.

48. Flestir tøldu fánýtt ráð Fleyn að reyna leingur Lands var fjølda flúin dáð Fær nú skjøldúngs sonur tjáð:

49. Hversu mundu margir geir Manna spanna hinna Tuttugu hundruð herma þeir Hildar skunda enn um leir.

50. Kémpan spurði þekkið þér Þann er vann að skapa Menn og furðu heima hér Hinir urðu fámálér.

51. Kóngsson aptur mørg og merk Mønnum vann að inna Herrans krapta og hjálparverk Er himin skapti og løndin sterk.

52. Víst sá gétur hjálpað hér Og hjá oss fáum standa Ef hann metum eins og ber Og mig létuð ráða þér.

53. Ef þér heitið ást og trú Einum hreinum Drottni Og þá mér veitið þjónkan nú Þegar leitið heim í bú.

54. Eg með hunda heiðnum lýð Hørð þar sverðin fljúga Ei hef lund að auka stríð Enn um stund þá kosti býð.

55. Allur herinn hrópar þá Heitin sveitir binda Hlýdnir vera hans forsjá Hvad sem ſkér í víga þrá.

56. Leitum vér þá ekki á Otul hetjan tjádi: En vidbúnir ad vígra þrá Verjumſt hér sem takaſt má.

57. Í búdum Valda bar svo til Bana reyna margir Sem í ſkjalda ſærduſt bil Sverda galdur fær þau ſkil.

58. Eitur blá þeir sárin sjá Sárid fara ad meta Mun þeim háa manni frá Meidsla dáid sveitin fá.

59. Brandur eitur hertur hans Halda ſkjalda vidir Keiri sveit í dauda dans Drótt þó beiti vopna fans.

60. Mælti Valdi óþægd er Ad þeim ſkada manni Pektum aldrei verri vér Vel á halda rádum ber.

61. Skipar lidid leynum því Láti er eitrid veldur Eg ſkal vid hann vópna gní Vekja fridar þrotum í.

62. Kápu á eg ei sem má Eitur veita ſkada Nú ſkal sjá hvør meira má Meina þrá ſkal kaudinn fá.

63. Þegar heidan himin vid Hækkar þekkur dagur Kom frá skeidum skada lid Skøglar reidir troda mid.

64. Kóngsson menta mesti tér Til manna sinna þannig: Nú mun henta ad verjumst vér Vita twennt og skulud þér.

65. Feigd eg kann á flestum sjá Fyrda er mirdast verda Ad øllum vann eg ydur gá Aungvann mann hér feigan sá.

66. Víst í huga hitt er mér Hættan styttist brádum Hyldar slugu hríd þá er Hjálp sem dugar fáum vér.

67. Vid þau ordin ólmast þjód Øll á vøllinn tredur Hyldur þordi ad heimta blód Hristur kordi úr slídrum vód.

67. Landsmenn saman þyrpast þétt Prumur glimja hlýfa Hrídin rama hvergi létt Og hrafna gaman brátt er sett.

69. Þeir fóstbrædur blódugt stríd Í broddi oddfylkingar Vekja skjædir var nú tíd Verdur blæda feigum lýd.

70. Slíkum lædist fyrnum frá Fælin kjælan grílu Hún vill nædi þægra þrá Og þvættings mædi kastad fá.

# Tuttugasta og Þridja Ríma.

Gidjan ljóda er glæddir hljód ad greinum vendum Og andann módur, hrærdir, hönd, um Hátt ad bjóda klædaströndum.

2. Mér þú gleimir mærdar eim þar minda hreldur Ekki er heima Idun heldur Eg er tveimur raunum seldur.

3. Dofna sjer þú muna mér og máttinn hagaun Min ad þér ei þóknist saga Pad kann vera eitt til baga.

4. Saung vid hrillir sagan snilli sníst; vana Stridinn illu æra hana En eg má fylla skilmálana.

5. Þó eg má af þessu sjá ef þankar leita Gódum hjá er gjæfan neita, Glotun fá þeir illa breita.

6. Líkafrón nam ieida úr tjóni lundinn milda Fyrir; sjón og frægdin gilda Fús réd þjóna verkum snilda.

7. Hann mót lidi er hrjádi frid í hættum vanda Mátti ydugt mæddur standa Ad manndóms sidum þrælum granda.

8. Sogn pad stydur sérhver smidur sinnar

gjæfu Sé af vidum voga glæfu Med vitsku sid og abli kræfu.

9. Allt er synd fyrst hún er blind ef heimta skildi Sem konugrind ei géfa vildi Gunna kind af hennar mildi.

10. Þá skal reika þánkinn veiki ad þjóda skara Hvørnig leikar fyrda fara Frá því eikur søgu snara.

---

11. Þétt sem veggur sægur seggja saman stendur Høggva og leggja ódir endur Eldíng tveggja gnúdi rendur.

12. Líkafrón þar lamdi ónars leppa og silgjur Od med tjóni blóds um bilgjur Beggja þjóna kappa silgjur.

13. Sá med dreingi sóknar eingi sverda grérinn Gégnum þreingist hinna herinn Hljódar leingi sárasférinn.

14. J sjø reisur þannig þeisa þegnar voga Beita hneisu brjótum boga Blindvids eisur hvíng og loga.

15. Kóngson hér vid kappa tér sá kvistar þjódir Dável fer nú dreingir gódir Dólga ber á heljar slódir.

16. Minna dreingja en fær einginn eggja skeinu Brátt mun þreingja að þrælum seinum Og þeir ei leingi ráða beinum.

17. Valdi tjáði veljum ráð með vitsku berri Aldrei háðl eg vígin verri Vor er dáðin nú sem þverri.

18. Førum dreift svo fólar sneiptir flæmist sundur Bálum heipt og blindar-tundur Blóði sveipta tróðu grundu.

19. Riður þá að ræsir háa risinn døkk-ur Hetjan frá af hesti støkkur Hugar sá ei verður kløkkur.

20. Grána sinn ei vill að vinni viður slíka Støkkur hinn af hesti tíka Hildar linna báðir slíka.

21. Popilur að bróður bur þá brunar Valda Wrist hvør við elið skjalda Ótraudur vill heiptir gjalda.

22. Brjóta stángir stáls í fángi staur-ar ríta Spjóta lángir broddar bíta Bót á vángi síst má hlíta.

23. Saxlendíngur sendi slíngur svedju bláa Skjøldur springur kappaus kndá Kord-ann slíngur reiddi þráa.

24. Pepill vann að miðjum manni mæki reiða Léttur vann í loptið skeiða Ljósa glanni báru heiða.

25. Báðir mæðast þörfar klæða burða kváu Einginn blæða-sárin sáu Í svidris glæða eli háu.

26. Geingnst að í øðrum stað við eggja kviður Valdi hraði og vísirs niður Van-skapadist allur friður.

27. Saman þreingjast þétt svo feingu þeir ei beita Víga eingja vargi heita Var svo leingi beggja streita.

28. Eitt finn høgg á øxl réð skrøggur ólmur fánga Kápan snøggum þørfa dránga Dugði og pløggin føðurs hánga.

29. Glotti kall og greiðir spjall með grimdar huga Eitrið valla vill nú duga Vita hallin skíða buga.

30. Einginn sá hvør sigra má þó sæk-ist leingi Høgg ósmá þar dundu á dreingi Dreira háa skelfur eingi.

31. Æneas þá sem eggjum brá að ein-um kappa Ekki má við illum glappa Urku sá þó bar til happa.

32. Af mædi og sárum meidma hár var mætur bundinn Hels í bárnm herdir fund-inn Af hristar tárum slódi grundin.

33. Um þær mnndir meir enn hundr-ad manna borgar, Fjötrast bundin egg þar orgar Efni fundu margir sorgar.

34. Ohljód heyra álfar geira um þær mundir Hildar leirar øskra undir Aldrei meir ad hlustum drundi.

35. Hljódin aukast hrædslu kaus í hjørtum stofna Eirdarlaus má leikur dofna Lá vid hausar mundu klofna.

36. Valdi stundi vígs um grund og veik til svora Hvílík undur ad oss fara Ødlíngs kundur nádi svara

37. Gudir þínir grimmir hrína, grenja og belja, Veidi sína ad sækja og belja Senn mun pína ydur helja.

38. Ljónin fimm þá geistust grimm um gríma øgur; Hljóda dimm enn hvørgi føg-ur Hildarrimmu vara søgur.

39. Tveir riddarar framm þar fara fák óstirdum Hundrad var þar fimta af fyrd-um Flein sem bar og eiddi kirdum.

40. Valdi blekkist belgja fékk nú barka-rætur; Betur ekki enn ljónin lætur Lömdu bekki hildar fætur.

41. Teknr hest og tryllist mest enn traudt til happa; Tvo hann hresta hefur kappa Ad hlífum best er sverdum-þjappa.

42. Kóngson reid til brátt þar beid hans bundid meingi Tjørgu meidur trúr á veingi Tuttugu sneid í einu dreingi.

43. Leisti hina; enn ljónin hrinur lítid spara Af óvina fylkíng fara Í feigdar ginid mørgum snara.

44. Saman halda og sundur skjalda svidi tæta, Frændi Valda má þeim mæta Meini baldinn fær ad sæta.

45. Hestinn rífa reidi stíf í rómu banni Røgudu hlíf og hold af manni Hann er lífi firdur þanninn.

46. Nú ad undrum eggja fundar íta vaxa, þar til sundrast álfar axa Eptir hundr-ad lifdi Saxa.

47. Vída brands í veikum fans stód Valdi þorgi Og kappar hans þar tveir á torgi Tirfíngs dans þó grenji og orgi.

48. Valdi leidur lagdi skeid ad Líkafróni; Frá eg breidir brandar tóni Bylgjur freida á hrístar lóni.

49. Sóktust leingi saman eingist sigtýrs kvinna; Sárin eingin ýtar finna Ad þó þreingi stirjar vinna.

50. Kóngson sjer vid ærid er þar íllt ad búa; Sá á bera hrikans hnúa Hjør hann gérir þángad snúa.

51. Kémpan sló og hendur hjó af hlífa sóta, Illum þróast eimslid ljóta Eggin smó ad ristum fóta.

52. Aftók þær, en eggin særir ódins kvinnu Bogna fær ad víga vinnu Vasinn ærn kappi stinnur.

53. Valdi hleipur haldinn sneipu á herdar manni; En þótt greipar átøk banni Ærid sleipur verdur glanni.

54. Sig hann undir keyrdi kundinn konúngs frída; Hans þá stundu staurinn skída Stúfum mundi andlit hída.

55. Sjónin spillist trøllid tryllist tírs í módi; Andlit fyllist allt af blódi Atast snilli farfinn gódi.

56. Kaffon sjer ad vísírs ver í vanda neydist; Pángad fer sem gata greidist Geir= inn ber í høndum reidist.

57. Stúfa á vill staulast þá hinn sterki fjandi; Kóngson sá ad víkur vandi Vid hann brá því uppstandandi.

58. Í hans fáng hljóp œttartánga álfur reidur; Vard adgángur virda leidur Valda spánga feldi meidur.

59. Ofan á glanna elda hrannar álfar fara; Umbrot hann réd ekki spara Edli manna tíndi bara.

60. Høggva má hans fætur frá sá frægd= in leidir; Dasast þá og ærslum eydir Ord= um sá úr hvofti freidir.

61. Ykkur mikid unnid þykir álms til hreggja; Pau atvik skal þó á leggja Ad þróttur hiki og frægdin beggja.

62. Kaffon reynir keyra stein í kjaft á fanti; Hann mót gein þó vidbit vanti Verda leynast ord í tranti.

63. Høldar svola hausinn mola hørdu grjóti; Heilinn volast med því móti Mátti þola helju fóti.

64. Eptir daudann kápu kauda Kaffon géfur; Því í naudum hjálpad hefur Og byrda baud sá snildin vefur.

65. Demas þá við kaudans knáan kappa stríðir, Undan sá á hesti hýðir Heljar dá þá Valda níðir.

66. Siga ljónum framm um frón þá freyrar knísa; Dauda tjón fær hlinur hlýfa Hann með klónum dýrin rífa.

67. Saxar allir eru fallnir eingin stendur; Blódið vall um lángar lendur Lýðir snjallir hvíla hendur.

68. Demas lið í dreyra iðum drukknad hefur; Landsins friður lýðinn vefur Leikið við þá gjæfan hefur.

69. Svo til tjalda týrar halda tjarnar ljósa; Sæmdum valda og sigri hrósa Sviðar skjalda værðir kjósa.

70. Eg af leti í lágu fleti loka augum: Ef eg gét fyrir ógn og draugum Sem einkis meta værð í haugum.

## Tuttugasta og fjórða Ríma.

Henn hef eg með sál og hønd Svo fór

líka betur Leist af mér þau bragar bønd Sem bar eg heilann vetur.

2. Vegna þess minn hugur hlær Hér vid lausn ad finna Likt og þegar fánginn fær Frelsi þrauta sinna.

3. Þó af mér fyrir þetta senn Þvættist skálda æra Sendíng vil eg eina enn Íslendíngum færa.

4. Þótt ad kvædin þessi nú Þikist vera haugur Mín er ekki sendíng sú Sannkalladur draugur.

5. Eitt er það mig afsakar Ad í gódu skini Flétting ljóda framm eg bar Ad færa okkar vini.

6. Hann sem unnir landsins lýd Lista geymir mætur Hann vill stytta trega og tíd Til þess yrkja lætur.

7. Fékk hann mig því fyrir sig Fleyppur þetta rita Til þess hefur týnt í mig Tøluverda bita.

8. Mín er bón af hjarta hrein Heyrda sem ad vonum: Ad stúlkan vildi vønsta ein Verkid launa honum.

9. Hæglyndi og hugvit Njáls Hjá þeim

skulum finna Bjørn er nefndur burinn Páls Vidill kvæda minna.

10. Mitt hid litla ljóda kver Leidir muntu þreyta Fardu nú um frónid hér Fornvinanna ad leita.

11. Í skilnad er þad skipun brýn Skrædsan kjálka þunna Kistu þá sem kvædin mín Kannast vid og unna.

12. Lifid allir landar vel Ljúft þess hjartad bidur Þótt mig kalli hédan hel Hamíngjan klappi ydur.

---

13. Par skal hefja þennann tón Og þylja søgu høldum Landsherinn og Líkafrón Leidir sókti ad tjøldum.

14. Geirmundur nær seggi sá Sjóla kundi fagnar Heilsa Jalli hollum þá Hæverskelega bragnar.

15. Líkafrón þá leysa réd Landsherrum og ødrum Søgu alla seigja réd Sárs af beittu nødrum.

16. Jallinn þakkar vísírs ver Vidir handar drifta Herfángi sem ærid er Eiga þá ad skipta.

17. Helmíng réttan hetjan tók Hilmir allt þó bidi Svo til borgar sveitin ók Sigri gjœdd og fridi.

18. Veitsla stofnast vísir hjá Vekur arfi sjóla Blídu mál og beiddi þá Brúar orma stóla.

19. Jáord fékk af fylkir létt Frú var manni lánud Veitslan aptur var nú sett Víst í hálfan mánud.

20. Jall med sínum øllum aud Orma kveikir skara Helmíng ríkis hafa baud Hinn réd því ad svara:

21. Ydar son og máginn minu Mun ei arfi svipta. Annad rád eg fegra finn Fylgi nokkur gipta.

22. Løndin vil eg nema ní Nœrri ydur grønnum Líka vil eg þiggja því Þrjú hundrud af mønnum.

23. Þeingill frá eg þessa bón Þœgum mági veitl Tók hann þá er sverds vid són Seldu ádur heiti.

24. Kasson hafdi ferdast fyr Ad finna Démas kénda Medan þreytti mœkja styr Meidir gullsins brenda.

25. Þessa vegna þad tilbar Þegn í vinar ranní Á Føgruvøllum frækinn var Fyrir sendimanni.

26. Mánadi hjá milding tvo Mælt er kappar bidi Hédan bjóst ad halda svo Hildingsson med lidi.

27. Ástir móti ástum galdt Árfinn sjóla gildi Ád módunni svo mági alt Milding sjálfur fylgdi.

28. Hérskip látid hilmirs ver Hafdi þángad fœra Hann svo jalli heilsan tér Hjartanlega kjæra.

29. Geirmundur vid gódann hal Grátinn skilja mundi Voktu med sér vinatal Er vardi allar stundir.

30. Kóngsins arfa fólkid flest Fylgdi þá til skeida Svemlur bædi saudi og hest Seggir honum greida.

31. Demas skildi vænann vid Vísirs son med blídu Ád Føgruvøllum fór med lid Forløg þrutu stridu.

32. Gjæddi mánujinn gjøfum nú Grana veitir þúnga Føgruvalla fagurt bú Fékk og ljónid únga.

33. Kóngson Jason finna fer Fögnud veitti blída Kappinn eins og komid er Kynti njóti skída.

34. Hetjan kallar hundrad menn Hér-ød þar ad skoda Landi skipti og seldi senn Sólar tírum boda.

35. Arfi sjóla annad lid Allt nam færa í dalinn Høggva þeir og hesla vid Hædst-ann reistu salinn.

36. Løgdu tún og valinn vøll Vidir frægir skeita Dreingir þessa dýru høll Dalborg láta heita.

37. Høfudslotid herinn mær Hóf og mundi vanda Þar sem Jasons þrifa bær Þektist ádur standa.

38. Aldingarda og akra þá Umhverfis þeir loga Fagurt var þad frón ad sjá Fornaldar um daga.

39. Líkafrón nam leida í víst A lagi dýrinn banda Þar sem Jason frægur fyrst Fann og kom til landa.

40. Kastala tvo og kaupstad þar Kóng-son lætur forma Hæg og føgur høfnin var Hamrar tøfdu storma.

41. Líkafrón sem æðstur er Yfir staðnum sína Sitt sinn rædu slitja fer Fóstbrædur við sína.

42. Hvør er ydar óst og ráð Orma tírar sitja Hér að nema hjá oss láð Heim eda aptur vitja.

43. Fóstbrædurnir þuldu þrír Þá skal greint hvað viljum Hvar sem þú í heimi býr Hvørgi við þig skiljum.

44. Þá við munum kóngson kvað Kanna land og skoða Velja ykkur vænann stað Vita runnar boða.

45. Ríða allir lángt um lønd Leingi kanna svæði Uns að fundu fjærri strønd Fagurt bygðar stæði.

46. Dróu vidi og áhøld að Elda tírar þriggja Vandaðan og vænan stað Á vøllum þessum biggja.

47. Popill þá og Kasson kjær Kjósa staðinn nytja Sérhvørt þángað fyrða fær Foreldri að vitja.

48. Kasson eignast Jasons jóð Járna frækinn raptur Æneas sér festi fljóð Og fékk hans systir aptur.

49. Líkafrón á systur sér Sú var kost-ur besti Hún var sókt og híngad fer Hana Popill festi.

50. Settust nú í sælu stand Svidir allir skeita Mæri þetta Medalland Menn nú síd-an heita.

51. Líkafrón vid linda gná Ljúfri átti nydja Manlíur hét sveinninn sá Svo sem hinn réd bidja.

52. Tannar féd á Føgruvøll Fadirinn mundi sækja Þar med fylgdi audna øll Ungum týri mækja.

53. Líkafrón og laxmenn hans Letrar sagan kénnda Frægdir vóru um leidir lands Lángt til jardar enda.

54. Heimbod tók hvør ødrum ad Alla lífs um stundu Hvørt og eitt sem einn til kvad Allir kjósa mundu.

55. Jallinn dó, en son hans setst Sjálf-ur þar ad vengi Ást og vingan fék sá fest Fóstbrædrunum leingi.

56. Geirmundi hann gaf eitt laud Gøml-um til forráda Vardi hann med herdtum brand Haudrid fyrir báda.

57. Fóstbrædur og furstar þeir Festir vina bøndum Unntust flestum mønnum meir Medan stýrdu løndum.

58. Hagur allra í heidri stód Hvørgi brá þeim vana Ellin vid þá var svo gód Ad verda þeim ad bana.

59. Manlíur vard hetja há Hristi leingi vigur Herkóngur um høfin blá Hafdi jafnan sigur.

60. Lofdúng Saxa Líkafrón Leingi mundi hata Enn þordi aldrei þángs um lón Pángad hefndum hvata.

61. Alþenur med dyggva drótt Ad Dalborg nádi aka Vid kastala og kaupstad fljótt Kaskur mátti taka.

62. Líkafrón í løndum var Lofadur margar tídir Ellin honum bana bar Vikar þó um sídir.

63. Hann sem trúna hélt svo ríkt Og hædstann Gud tignadi Honum valla held eg slíkt Hafi ordid skadi.

64. Honum leingur hvørgi ná Heimsins sona kvædi Sagan mér því flytjist frá Feigin verda bædi.

